el, einn neisti', ein by'gja', einn blær, burtsneiddi allt þad lén, en sá því treysti'- er engu nær, utan því meiri smán.

8. Veröldin blíd ad láni lér, lystugt gletinar hross, ásýndum þýd á baki ber, beiskann hermúngar kross. Luckan dáfrída líkust er, vid limskann Júdas's koss, best væri' í tíd ad sjá ad sér, svo hún ei blecki oss.

9. Vold, léni, makt og vyrdíngar, vel margur sér dró ad, høfdíngja dragt og skrúda skar, skrautlega útsnickad, af skal þad lágt og ecki par, aktar daudinn um þad, frá allri frakt án ordlofs bar, út hvern úr sínum stad.

10. Hvad er heims blómi' og gjørvallt glis, sem girnist holdid á? reykur, hégómi, følski, fis, fjúkandi lauf og strá, ad mínum dómi slægd og slis, slær ýmist til eda frá, skadsemdar ljómi, bálad blis, blindar skjótt þann þad sá.

11. Rót allra meina med sér ber, mannordsíns girndin snaud, heljar slód beina búkurinn fer, burt frá makt, hefd og aud; þad eitt alleina óvalt er, ad óttast Drottinn Gud; viltu slíkt reyna, hygg ad hér, hvad hann þér sjálfur baud.

12. Láttu því fara heimsins hátt, holds nætnad, dreifs og brjál, egnd daudans snara er vid gátt, ad þér mun dregid tál, medan þú hjara hér enn mátt, hugsadu' um þína sál, þar tak á vara, þrýtur brádt, þjód-brautin lífsins hál.

## Um heimsins vondt háttalag.

, Lagid: O Jesú! edla blómi.

Hætta er stór í heimi, hjálpi oss Drottinn kjær! frá Satans svikum geymi, svo ecki glötumst vær, reynd blída. grand grædi, greind lýda vandrædi, leynd vída land mædi, á lopt sér aptur slær.

2. Djøfuls nú veröld veidir, véla-nót mørgum skjæd, í villu og vantrú leidir, vondskan sú þúsund-ræd; ár slíkur, fer, flakir, flár svíkur, hverr vakir? hár, ríkur, slær sakir, sídar Gud af hæd.

3. Otal íllgjørdir þróast, ei tjáir leyna því, trygd og trúskapur sóast, takast upp vélrád ný, fleskollum fast spilla, fest gollum last, villa, verst kollum kast qvilla, komid heiminn í.

4. Straff sýnist stórt fyrir hendi, stofnad mjøg til þess er, von á refsíngar vendi,

í- vørt því hættan fer, veld synda, gyld granda, gjøld kinda, fylld standa, øld blinda, vild vanda, versta ljóst ei sjer.

5. O Jesú ástkjærasti! ydrunar géf oss tíd, hyrt ei þitt fólk med hasti, heyr mig nú, gædskan blíd! eyd hættu, rád réttu, reidi sættu, hrjád gledtu, neyd bættu, nád settu, nauda þjádum lýd!

## Veraldar þecking um heimsins brygdlyndi.

Lagid: Oll lucka gleri líkust er.

Gud bid eg nú ad géfa mér ráď, og greida minn veg til besta, hann einn mun veita hjálp og ráď, hvad sem mig kann ad bresta, þó þorfin sé bædi þúng og bráď, og þyki opt bótum fresta, á Drottins miskun, mildi og nád, mitt skal eg traustid festa.

2. Mannleg adstod er misjafnt trygg, margir fá slíkt ad reyna, trúskapar lundin laus og stygg, leid gengur þegi beina, veltur á ýmsa hlid um hrygg, hamíngju lánid eina, þá í naud bjarga helzt eg hygg, hægt muni veida ad greina.

3. Loksins fæ eg nú fullreynt þad, hvad fallvølt er heimsins blída, bindur sig ei vid

stund né stad, stilling enga kann líða, margann ber sama brunni að, blind gengur luckan fríða, enginn fær sjálfur ágvarðað, eptir hverju skal bíða.

4. Þeir, sem mér vóru vinir fyrr, vel þá géck einusinni, þegjandi sneiða þvers um dyr, þeim er eg liðinn úr minni; ef allir sigla sama byr, selskap er von mann finni, hinn má vel bíða í höfnum kyrr, sem héldt mótviðrið inni.

5. Þar, sem eg hugði hælis mér, í hormúng minni' að leita, að engu athvarfi orðið er, ull sókt í hús til geita; rót sú opt ávöxt rammann ber, sem ræktuð er með sveita; heppinn þykist sá, sjálfum sér, af sundinu kann að fleyta.

6. Gott er að gleðjast góðum með, gamans og liðs að njóta, brádt kann þó selskaps bróðerned, burt sem vatns-straumur fljóta; þá heilsan brestur, heill og féð, hornaugum vinirnir skjóta, egið gagn hvörir efst á bed, en ástin leggst til fóta.

7. Margskonar ángist margann sker, misjafnt vill opt ábjáta, af auðmjúku geði' og þánka þér, það vil eg, Drottinn! játa; verðskuldan mín eg veit það er, verst slíks

í engann máta, nú bið eg þig nauðstöddum mér, náð og vægð framm láta.

8. Einmana stend eg uppi því, engum hef til að segja, ýmsum hörmúngum haldinn í, hverja stund má eg þreja; á Drottinn skal mín nauðsyn ný, nú og jafnan sér fleygja; lát mig af öllu fái frí, í friði, minn Jesú! deyja.

## Bæn í heimsins andstreymi.

**Lagið: Lifandi Guð! þú lít þar á.**

Drottinn! lát mig í heimi hér, haga mér kristilega, svo eg rétt jafnan þjóni þér, og þóknist alla vega; hræsni, ágirnd og óhlýðni, aldrei í mínum huga sé, forða mér tjóni' og trega.

2. Guðlausra manna glæpa sið, gef þú eg varast kunni, haldtu mér sannleiks veginn við, vél heims mig engin ginni; hoftug ránglátra refsíng bráð, rétt fái aldrei til mín náð, minnist mín í miskun þinni.

3. Frá hjartans blindni og harðýðgi, Herrann Jesús mig geymi, af alri heimsins saurgun sé, sál mín í þessum heimi; hugskot og eyrun opna þú, efl með mér hlýðni, von og trú, ást þín mér aldrei gleymi.

4. Þess eins af hug og hjarta eg bið, Herra minn, dýrðar ſæli! hreinann lærdóm mér haldtú við, holds ſkynſemd mig ei tæli, hvorki mannanna vald né vild, vinátta blíð né heiptin gyld, frá þínum ſannleik fæli.

## Bæn móti andlegum óvinum.

Lagið: Óvinnanleg borg er vor Guð.

Leið þú mig, Guð! og lát mig ei, leiðaſt af ſjálfs míns þótta, meðan í heimi hér eg þrey', hald þú mér við þinn ótta, hvort eg geng út eða inn, annaſtú, Jeſú minn! líf mitt, ſamvitſku, ſál', ſjón, heyrn, orð, verk og mál, flærð djöfuls rek á flótta.

2. Ljúflega eg þér legg á hönd, líf og heilbrygði mína, líkhamann tak og einnig önd, undir trúfeſti þína; þú átt, já, eigðú hér, allt vald og ráð á mér, öll er umhyggja mín, af mér komin til þín, ſvo læt eg ſorgir dvína.

3. Hvað ſkal manneſkjan mögla þó, móti Skapara ſínum, Adams fall þetta undir bjó, með allskyns ſút og pínum! Jeſús allt bætir böl, burttekur ſorg og qvöl, honum á hönd mig fel, hann leyſir þrautir vel, hægir það huga mínum.

4. Mín sál! hvad viltú mæla þá, móti stickum þíns Herra? arf-syndin gamla eykur þrá, og enn er forþént verra, af því eg allt of-frekt, á jók þá fornu sekt; svo munu' í heimi hér, holds þrjótsku kraptarner, hrjóta ad hjadna' og þverra.

5. Endurlausnari! lof sé þér, lausn fyri ondu minnar, leystur frá dauda ljóst eg er, lausn fyrir pínu þinnar; leystú, Lausnarinn kær! lastanna flækjur þær, sem sál mín sitjur í, sorg hef' eg, Herra'! af því, lát mig lausn synda finna.

6. Leystú mig, Jesú! løstum frá, líf mitt ádur enn dvínar, lausnin blessada leys mig þá, ljóst fyrir undir þínar; leys mig, Lausnarinn trúr! og lina mótgángs skúr, þegar þér þykir mál, þér fel eg líf og sál, ord og athafnir mínar.

7. Sáluhjálparinn sæll Jesú! sál mín þér ætíd fagnar, sálunni miskun sýndir þú, sálin þér lofgjørd magnar; sál minni sýn þú lid, sála mín þess þarf vid, sálin er sjúk og mód, sál' unn þitt blessad blód, er sálunni sætast gagnar.

8. Hjálpari minn og Herra dýr! hjálpa nú þræli þínum, hjálprædis blessud heillin dýr! hjálpa þú veikleik' mínum; hjálpar-

laus hjarí' eg hér, ef hjálpar þú eigi mér, hjálpa mót holdi' og heim, hjálpa mót óvin þeim, sem veldur vítis pínum.

9 Lífgjafari minn og líknin fín, lífinu vyrdsti vægja! lífs-fadir ertú lífi mín, lífs meinum gjör þú hægja! líf og sál lofi þig; lífs medan sparar mig, líf mitt lífi í þér, lifdú; Jesús! í mér, lífi lát løstu' ei bægja.

10. Fel eg mig nú í fadminn þinn, Frelsarinn Jesú sæti! þó' ad mér þreyngi ánaudin, eymdir heims og mótlæti; verdi þinn vilji' á mér, vil eg þad líða hér, lidsemd' mér leggur þú, lát mig um sídir nú, lifa med líffins mæti.

## Ydrunar og bænar andvarpan.

Lagid: O Jesú edla blómi!

Auvej! minn Drottinn dýri! dapur eg kém til þín, andi þinn æ mér stýri; ángrud er sálin mín; græd hana, Gud eini! gèd-pína ad linist, blód Sonar grid greini, grátin kjætist sýn.

2. Synd mín er sandi fleiri, særir þad hjartans grunn, nád þín er miklu meiri, mér er hún ordin kunn, svo: fridi sí-þjád-

ann, sá gōdi œ blídur, sú gledi sé gæda, sídu af raudum brunn.

3. Mannleg hjálp mest vill þrjóta, mikil þá naudsyn er, því flý eg til þinna fóta, þyrmi nú Drottinn mér, heyr bænir hýr mínar, hér týn ei reir klénum, gjør lína mér meinum, mest eg treysti þér.

4. Drag mig úr djúpi nauda, Drottinn! eg bid af rót, Sonar þíns sárann dauda, synd láttú vinna bót; sál nádi sól fridar, sæl greidi heil rádin, qvøl eydist, kul grædi Kristí ástin fljót.

5. Týndann úr tølu sauda, tak þú mig enn í sátt, afstýr þú ángri nauda, einninn gjør lyndid kátt; greid brautir, Gud mætur! græd sútir, frid játa, klid þrauta þad brjóti, þinn svo kánni mátt.

6. Eg fel í umsjón þína, einasti minn Jesú! önd, líf og æru mína, øllu því stjórna þú; lof, heidur, ljúft greidist, lífgrædir af þjódum, haf, Fadir! hlíf góda, hér oss fyrir nú.

# Þridji Flockur

í hverjum finnast nockrir

## Ydrunar- Huggunar-

og

## Þacklætis-Sálmar.

---

### Bæn ydrandi og trúads manns.

Lagid: Til þín, heilagi Herra Gud!

Syng þú lof Drottni, sála mín! sem er þinn Gud og Herra, víst því hann gjørdi vel til þín, velgjorda minnstu þeirra, gaf þér eingétinn Soninn sinn, sem fyrir þig var líflátinn, hvert ástverk er ollu stærra.

2. Lær þú ad stunda líka fremst, lofsýngja þínum Gudi, eins og Davíd ad ordi kémst, í sínu Sálms atqvædi: mín ønd og allt hvad med mér er, minn Drottinn! heidur vandi þér, fyrir þín géfin gædi!

3. Mig ángrar þad í minni sál', ad mót syndgadi' eg Drottni; ein synd verdskuldar eilíft bál, eptir løgmálsins vitni; hverr kann ad reikna syndir sín? sjá! fleiri eru afbrot mín, sandi á sjáfar-botni.

4. Alít mig, Drottinn! aumann þræl', augum miskunar þinnar, állt og heyr mitt

eymda væl, álít vein sálar minnar; í Jesú nafni aumka mig, í Jesú nafni bid eg þig, Drottinn Gud dýrdarinnar!

5. J hans helgustu sárum sjá, synda forlíkun mína, hvad þúngt þín reidi á honum lá, hverskyns qvalir og pína, djøful, helvíti og dauda vann, med dýrdlegum sigri uppreis hann, endurleysti svo sína.

6. Auma syndara hér í heim, hann til ydrunar kallar, svo stadfestandi sjálfur þeim, sínar velgjørdir allar, í sakramenti altaris, ef rétt=trúadir neytum þess, svo sem Postulinn spjallar.

7. Vidurkénnandi vor afbrot, verduga stærstu nauda, utan vér høfum eilíf not, af Jesú pínu' og dauda, berum oss voit ad bæta rád, bidjum Drottinn um sína nád, vor gæti veikra sauda.

8. Eg má þad játa aum mannkind, eins sem Kóng Davíd rædir, mér fyrigéfur hann mína synd, meinsemdir allar grædir Jesú útrunnid blessad blód, bót og lækning er hardla gód, þeim synda=þúnginn mædir.

9. Hjálpa þú mér, ó Herra Gud! hjálpa þú sálu minni, hjálpa þú mér í himna=frid, hjálpa þú sképnu þinni, hjálpadu mér frá

heljar neyd, hjalpa þú mér fyri Jesú deyd, hjálp þín mér huggun vinni.

**10.** Vægt hefir mér þín verndar hønd, veitt hirting føðurlega, það hrís reikna eg vægann vønd, vidlíkast barna-aga; kraptur þíns anda kénni mér, kjærleika þinn að stunda hér, og minnast þess mína daga.

**11.** Að gæti' eg heldur við syndum sjed, svo mig ei verra hendi; bæn, trú og þolinmædi med, minni ydrun þér séndi, vitandi' að þessi veraldar leid, verða muni mér ørdugt skeid, nema leidir mig líknar hendi.

**12.** O minn Jesú! þín eilíf náð, endurlífgi sál mína, eg befel mig og allt mitt ráð, í miskunar vernd þína, lát oss svo enda lífið hér, að lof, dýrð og heidur færum þér, vor Gud! um eilífdina.

## Um Guds forsjón.

Lagið: Herra! þér skal heidur og loining greiða.

Hugur slagar, hættur ýmsum benda, holdið bagar, margann vel að lenda, gégn þeim agar, gæt hvað hagar, gleymska' aslagar, æfidagar enda.

**2.** Mørg er hrydja mótlætis um aldur, mædu-vidja þúng, sem daudinn kaldur; vor

skal ýkja, veikra niðja að vaka' og biðja, oss vill styðja' Alvaldur.

**3.** Einn er Drottinn, ófinnandi' hans vegir, allt ber vottinn, líka hitt. sem þegir, elskan. óttinn, eydslan, gnóttin, dagur, nóttin, heilsan, sóttin, segir.

**4.** Guð ótraudur gótz er huga mínum, gagnið, auður, hreysti' í øllum pínum, lúckan snauðum, lausn úr nauðum, lífið dauðum, uppreisn sauðum sínum.

**5.** Allar sképnur eins úti sem inni, einn Guð seður, þó þær séu' ógrynni, hvergi' er slíkur, hvað viðvíkur, hønd fortíkur, sá upplýkur sinni.

**6.** Ei skal qvíða eymdum lýða fremur, enn þó svíða verði, hríð þá lemur; heldur stríða, biðja' og bíða betri tíða, blessuð blíða kémur.

**7.** Pøckum Drottni, þvíað hann er góður, aldrei þrotni sá kjærleikans hróður; auma' álítur, brauð þeim brýtur, bjørg framflýtur, sá ei þrýtur sjóður.

**8.** Máttur Drottins megnar alla vega, miskun hans hún varir eilífflega, sinna gætir, sína kjætir, synd upprætir, trúuðum bætir trega.

8. Dýrd sé Gudi, Födur og Syni samin, sannheilögum Anda allteins framin, þrennum, einum, Herra hreinum, hjálp hvers reynum, ædst lof greinum, Amen!

## Tuttugasti og þridji Sálmur Davíds, vidlíks innihalds.

Lagid: Gædskuríkasti Grædari minn!

Drottinn minn hirdir held eg þig, hér fyrir brestur eckért mig, mín gledi síst því sjatni, leidir mig gædska Guds med sann, gras-haga útí lystugann, og framm ad ferskn vatni; sá mest, má best, hugann hræra, endurnæra og rétt leida, vegna nafns síns veginn greida.

2. Og þó ad eg í daudans dal, döprum ráfi og mirkra sal, óluckan ei mig hrædir, víst því er med mér vernd þín hýr, vöndurinn þinn og stafur skír, heita mín huggun bædi; trúr, hýr, tilbýr, sitt því ordid fyrt matbordid sálu minni, móti þeim mig hrella kynni.

3. Mitt höfud smyr þín mildin klár, med vidsmjörinu síd og ár og fullt á fyrir mig skenkir. Gædska þín Gud og miskun mest, mun mér fylgja lífdagana best, minn hugúr

þar á þenkir. Eja! Eja! í húsi þínu elsku-
sínu og mun blífa, veittu mér hjá þér
víst eilífa.

## Bókstafa þýðing í Jesú nafni.

Lagið: Fadir vor! sem á himnum ert.

Ilmur er Jesús edla-skjær, oss við Guð
Födur sætta fær; andvarpan sanna syndugs
manns, svo gjörir fagra bænin hans, eins
og þá sólin uppljómar, allann himin og
stjörnurnar.

2. Eilíft líf Jesús oss tilbýr, allri hörm-
úng í gleði snýr, grimd og ógn dauðans
eyddi hér, andlát vort hægur svefn því er,
heljar brodd skjærann Herrann braut, hans
makt og vald með öllu þraut.

3. Sannleikur Jesús eflaust er, oss rétta
lífs-braut kennir hér, heims-spekin enga
huggun ljær, Herrans orð náð og blessan
fær, allir, sem treysta uppá það, eilífann
finna hvíldar-stað.

4. Vegur er Jesús viss og beinn, vel má
hann gánga hverr sem einn, fyrir hreina
trú og helgann sið, hann leiðir oss í dýrð-
ar frið, hræðast þarf sá ei heljar deyð,
sem heldur sér við þessa leið.

5. Sigurvinníngin sœtust hér, á synd og dauda Jesús er, djöful fángadi, enn frelsti oss, fyrir þá qvøl hann leid á kross. Ilm, Eilifd, Sannleik, Veg, Sigur skjær, svo nafn Jesús útleggjum vær.

## Endurminning Krists pínu.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Hvad hjartans kjærann hafdi mig, Herrann minn Jesú gódi! í daudann gaf hann sjálfann sig, og sínu úthellti blódi, Kóngurinn Engla einn, eilífur Drottinn hreinn, á sig tók mína mind, meinlaus fyrir utan synd, og keypti frá qvala flódi.

2. Aumur í fátækt fæddist hér, fyrirlitinn af heimi, lagdur í jøtu asna er, øllum hafnandi seimi, í útlegd hraktist hann, hærstur Gud og svo mann, allskyns armædu þraut, med ángri lída hlaut, saklaus frá synda eymi.

3. Blessudu sveittist blódi sín, bardist vid daudann stránga, harmqvæli øll og allskyns pín, yfir hans sálu gánga, fals-koss, fjøtur og bønd, færdur í Júda hønd, høgg, sløg og hráka leid, hædni, álygd og neyd, og døms ályktun ránga.

4. Krossfestur, deyddur Drottinn var, dreira-undina í pínum, hans blessad hjarta hardt þá skar, hvast spjót med broddi sínum, blód og vatn sárt med sút, sem þar nam renna út, heilagi Herra kjær! hreinsar mig vel og þvær, af sekt og syndum mínum.

5. Hvad kom þar til, minn mildi Gud! mædu þá vildir lída, og á þig taka allskyns naud, med ángri' og sárum qvída? gódsemdar gædskan þín, gjørdi þad vegna mín, frá køldum qvala veg, keyptur svo yrdi eg, og mætti miskun bída.

6. O Herra Jesú! hverr er eg þess, hladinn med mørgum syndum, ad forlétstú himna ljósann sess, og leitadir ad mér týndum? ljúfur svo leystir mig, létstú krossfesta þig, uppgafstú øndu þín, er þad lífgjøsin mín, svipiir burt sorgar mindum.

7. En hvad skal gjalda aptur þér, ecki neitt gott hafandi? sála mín, líf og alle hvad er, í þínu valdi standi; ángrad hjarta og géd, ydran syndanna med, ætíd þér offra vil, annad hefi eg ei til, medtak þad velvyrdandi.

8. Hvad þú áleggur lída skal, Lausnarinn ástar kjæri! hjartad, sinni, hugsan og tal,

blýdid svo allt þér væri; hjálpa mér, Herra minn! ad heilagann vilja þinn, eg elski af allri önd, eilíf þín nádar hend, á fridarins braut mig færi.

9. Hjálp mér ad géta haldid rétt, af hjarta, sál og sinni, hvad, sem þú fyrir hefir sett, huggun veit öndu minni; þá daudinn á dyrnar slær, Drottinn! stattu mér nær, ord síđust, Son Guds! þín, séu þá einnig mín, sæln ad sálin finni.

10. Amen! í Jesú eġid nafn, Amen! af huga hreinum; forda mér, Gud! vid glæpa safn, geym mína sál frá meinum; svo vil eg satt med trú, syngja þér, minn Jesú! Sanctus og sannann prís, í sællri Paradís, Amen! lof Drottni einum.

## Huggan i krossi og mótgángi.

Lagid: Náttúran öll og edli manns.

Þú, kristin sála! þjád og mædd, þreytt undir krossins byrdi, vanmegnast ecki, vert óhrædd, vilji Drottins þó yrdi: þrej, þol og líd, bíd, vona og bíd, bolid fær gódann enda, þá neyd er hærst, Herrann er nærst, hann mun þér fögnud senda.

2. Þú líður kross og qveinar hátt, qvíðir máské við dauða, holdsins vandi er þetta þrátt, þegar það kénnir nauða; heldur ætíð við andann stríð, allir megum það játa; styrk muntu þá, þurfa að fá, ef það skal undan láta.

3. Þannig lætur oss Drottinn dýr, deya frá þessum heimi, fagurlega sitt fólk tilbýr, fallvöltum aud svo gleymi, hyrtir mjög hægt, hér með sær lægt, hjartað metnaðar-gjarna, grætir um stund, gleður þó lund, Guð þannig sinna barna.

4. Þú sjer að móðirin mildi-gjörn, mjúklát við sitt afqvæmi, agar þó opt sín elskubörn, ei svo í skaða kjæmi; eptir hyrtíng, auðmýktar slíng, að sér þýðlega vefur, af þurkar klár, öll þeirra tár, ástar koss margann géfur.

5. Allteins fer Drottinn að við oss, orð hans ljóst þar um hljóða, hyrtíng á leggur hrygð og kross, hann vill oss allt hið góða; í hörmúng midt, mildir géð sitt, miskunar Faðirinn blíður, elskar þá best, hann agar mest, er þeim nærst, sem þýngst líður.

6. Heyr hvað Esajas hermir ljóst, heilögum fylltur Anda: en þó fást megi móður brjóst,, miskunar-laust til handa, afqvæmi

sín, svo ei þess pín, elsku daust hjartað kénndi, aldrei skal þér, þó gleymt af mér, þitt nafn í minni er hendi.

7. Gæt að hverju Guðs börnin blíð, báru sinn kross og liðu, hlutu að þola stundlegt stríð, stöðugt í trúnni biðu; Job, Móíses, vér minnumst þess, mjög þjáðir lengi vóru, Davíð og fann, sá Drottins mann, djúpin hrigðanna stóru.

8. Hver var meir vyrdt enn María, móðir Jesú vors Herra, hlaut þó krossfestann Son sinn sjá, sár hans ei fékk að þerra; harma sverð beitt, réð hjartað heitt, hennar þá sundur grafa; Drottni mest kjær, sú milda mær, mun þó víst verið hafa.

9. Já, Guð vildi sinn Son til sanns, svoddan með skarti príða, það mun þér blíðri brúdur hans, best allra fegurst hlíða; hvað loflegt er í heimi hér, honum samlíkjast mega, og Jesú hjá, himninum á, heimvon farsæla ega.

10. Kannské að þar um qvartir þú, kénnir eg vel holdið veika, þér vyrdist sem þín von og trú, vilji hvarfla og skeika; þrátt steudur naumt, þolgæðið aumt, þjáning ef lengi dvelur; bænin er köld, misgjörð margföld, mjög svoddan hjartað qvelur.

11. Ei er trúin þitt egið verk, enn þótt hún veikleg standi, né þolinmæði í þrautum sterk, það gefur helgur Andi, hvað hann upptók, hann gaf og jók, hjálpsamlega framqvæmir, vanmegnun þá, sem er þar á, aldrei hans náð fordæmir.

12. Vænin ef vyrdist veik og styrð, varastú þó að tregast, fyrir augum Drottins vel er vyrð; vor Jesús fagurlegast, þýðir það allt, þér sýnist kaldt, ef hún skér í hans nafni, offur það best, áser hann mest, ei trú' eg Guð því hafni.

13. Lángt þó finnist að líða þér, lítil stund má þó heita, éndanleg sú eilífð er, ofs þar mun Drottinn veita, unaðsemd þá, sem aldrei má, upphugsa mannlegt hjarta, lisum með fró, frið, sælu og ró, fagrir sem ljésíð bjarta.

14 Hygg að! því barni mest er mjúkt, móður hjarta ágæta, vanmegna, sem hún sjer og sjúkt, sýnir því hjúkrum mæta; eins er Guðs hönd, ángráðri önd, æ er hann nálægastur, ástrikur best, og blíður mest, við börn sín veik trúfastur.

15. Brákaðann reir ei brýtur hann, blæs ei út hör rjúkanda, glataðann saud með flýti fann, fráviltum lét ei granda;

á herdum sér heimleidis bér, hverr má oss þadan draga? veika sál best, bevara mest, bædi nætur og daga.

16. Í Jesú nafni bid og bíd, brúdguminn fullsnart kémur, hans er áíþndin þýr og blíd, hvad viltú girnast fremur? þín harma tár, öll þeirar klár þýó Drottins hondin skjæra, hér vid þig skalt, hugga á-valt, heilnæmt er slíkt ad læra.

17. Gudi sé lof! sem glada von, gaf oss í raunum vondum, lét hann sinn ljúfa líkar Son, leysa' oss af daudans bondum; hans andinn kjær er ætíd nær, öllum, sem þjáníng lída, vér sku'um því þreyngíngum í, þreja, vona og bída.

18. Af er þá stadin öll vor sorg, ángistar horfin mæda, í himnaríkis helgri borg, hvar Englar Drottins ræda, og sýngja sætt Sanctus ágætt, segjandi' af hjarta: Amen! lof, heidur, prís, sæmd, sómi vís, sé Drottni' um eilífd framin!

## Andvarpan kristilegrar kirkju.

Lagid: Gudsfurikasti Grædari minn!

Ef þú spyr ad: því kristnin klár, oveinar daglega' og fellir tár, andvarpar opt og styn-

ur? Þú skalt vita, hún þráast leynt, þykir brúdguminn koma seint, hennar hjartkjæri vinur; þrejir, feair: Jesú Kriste! kom sem fyrst, svo qvølum linni, endurnær mig á elsku þinni!

2. Hún bidur opt med hrygd og þrá: hjartans brúdgumi! lát þig sjá, ó Drottinn! dvel ei lengi, sætasti Jesú! minnstu mín, mér þykir lángt ad bída þín, nærsta því neydin þreyngir; eini, hreini, elskhuginn kjæri! kom hér nær, eg kalla' af mædi, lát þú mig ødlast þín ástar gædi.

3. O Gud gæfi! eg ætti' um sinn, upp til þín koma, Jesú minn! ad sídan skiljum eigi, hjartad mitt tak þú til þín fyrst, trú og nád svo mér ávaxtist, ad eg hér þolgód þreji; heitir, veitir, Herrann merkúr, hreinn og sterkur, heilagann Anda, sá mig buggar í háska' og vanda.

4. Sem hjørturinn þá hann þyrstur er, þreyttur til vatnsins flýtir sér, svo honum svalad yrdi, svo lángar oss hér úr heimsins pín, Herra minn Jesú! upp til þín, framda af krossins byrdi; grættu, bættu, ángrid strída, qvøl og qvída kristni þinnar, eid hana heim til hvíldar sinnar.

5. O Jesú! merk: þín ángrud hjørd, andvarpar, stynur þúngt á jørd, stodd nú í fári stærsta; hjálpa þú henni, Herra trúr! báska øllum og vanda úr, hún er harmþrúngin nærsta; lengist, þrengist, við óvin tryldann, ofsa fylldann, ætíð strídir; lát hana, Drottinn! sigra' um sídir.

6. Jesú! mig lángar eptir þér, ætíd hvernig, sem gengur hér, kom til mín, Jesú kjæril medan mér ønd í brjósti býr, bið eg þú komir, Jesú hýr! þér vil eg vera nærri; sértu, veitu, Jesús hærstur hjá mér nærstur, í hverskyns pínu, skýl þú mér jafnan í skjóli þínu!

## Um Guds adstod i krossinum.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Eg vænti, Drotinn! eptir þér, í minni hørmúng lángri, og bíð til þess þú bjargar mér, af beisku hugarins ángri, er strídir á mig fast, og hvern dag margfaldast, krossinn mig kremur hardt, kom þú! hjálpadu snart, svo linni strídu strángri.

2. Veit eg þú, Drottinn! manst til mín, þá mótgángs tíminn stendur, feginn í allri freistni og pín, fel eg mig þér á hendur,

nafn mitt vel þekkir þú, þess em eg fullviss nú, það er og skrifað inn, í handarlófann þinn, sigur er mér því sendur.

3. Minn andi, Drottinn! í þér gleðst, til orðs þíns jafnan leita, af huggun mjúkri sálin seðst, sannleiksins frjáheita: komið kross-þjáðir hér (Kristur sjálfur svo tér), alla eg yður mest, endurnæra vil best, ersiði er má þreyta.

4. Endurlausnarinn allra trúr, aumir hvers lækníng fundu, þessum mig leiði þrautum úr, á þeirri hjálpar stundu, þó holdinu þyki lángt, þjáníngar okið strángt, samt verðú, sál mín! hraust, set á Drottinn þitt traust, hans mildi-verkin mundu.

5. Lifir minn Guð, sem líf mér gaf, líf mitt er í hans valdi, lífs-qvölum svipti lífi af, lífs-björg minni viðhaldi! lifandi lífsins Guð! líf mitt frelsa af nauð, lífs svo eg lifi hér, að líf eilíft meður þér, fái eg um allar aldir.

## Þakkargjörð fyrir apturfengna heilsu.

(qveðin 1663.)

Lagið: Jesú Kristi! þig kalla' eg á.

Seg þú lof Drottni, sál mín! nú, sætt með hjartans fögnuði, daglega jafnan

þacka þú, þínum lifanda Gudi, hverr þér líf, krapt og heilsu gaf, hjálp, nád og miskun veitti, nær þjáníng þreytti, leysti þig öllu ángri af, eymd þinni'i farsæld breytti.

2. Eg var hladinn med' hrygd og þrá, hoidid mjög sóttin píndi, hönd Drottins lagdist hardt mig á, hyrting mjög þúnga sýndi; hverja stund daudans von því var, veiktist 'ífs megnid þjáda og naut ei náda, alveiiis dugdi ecki þar, adstod mannlegra ráda.

3. Þá eg lá svo í háska hér, med harm-qvælum sóttarinnar, gættir þú, Jesú minn! ad mér, miskunar naut eg þinnar, hönd þín blessud og hlífd ótreg, hættar freistíngar lægdi, og vel mér vægdi, svo nádar um-sjón ástúdleg, áráfum djöfuls bægdi.

4. Miskunar hjarta = þelid þitt, þá í brjóst um mig kénndi, græddir allt sóttar = meinid mitt, med þinni læknis = hendi, heilbrigdi gafst og hraustleik mér, úr hættu daudans leystir, og vel vid reistir; sæll og heppinn ad sönnu er, sá þinni gjæsku treystir.

5. Mikil er nád og miskun þín, minn Jesú hjarta = kæri! þú vyrdtist svo ad minn-ast mín, þó maklegur þess ei væri. Lofud

veri þín líknin góð, lofað sé orð þitt mæta, sem böl kann bæta, lofi himnar og heimsins þjóð, helgasta nafn þitt sæta.

6. Nú skal eg héðanaf sérhvert sinn, með sál, hug, raust og munni, lífgjafara og læknir minn, lofa af hjartans grunni; blessuð veri þín blessuð hönd, blessuð sé þín aðhjúkran, við mig sár-sjúkann, hirtíngar strafsins harðann vönd, hefir þú gjört mér mjúkann.

7. Heiti' eg nú, Drottinn! hér á mót, með hjálp og aðstoð þinni, af hjartans grunni gjöra bót, á gleymsku' og þrjótsku minni, öllu fremar að þjóna þér, og þínum vilja' að gegna, það mest eg megna, gefðu þar krapt og mátt til mér, miskunar þinnar vegna.

8. Geym mig frá öllum glæpa stig, góði Jesú, minn Herra! svo ei til reiði reiti þig, né rati annað verra; vyrðstú mér jafnan vernd og hlíf, vægð og linkind að sýna, nær sorgir pína, eins þá seinast mitt endar líf, annastú sálu mína!

## Um Guðs varðveitslu og forsjón.

Lagið: Eins og sitt barn.

Herra Jesú! mín hlífð ert þú, þó heimurinn vilji' ei láta, einka von mín, er öll

til þín, þú þoldir pín, þér vil eg hlýðni játa.

2. Afhaldið heims og auðlegð seims, aldrei mér látið hefi, til friðs þó er, minn Guð! í þér, eg uni hér, við það, sem þú mér gefur.

3. Líf mitt og önd þér ljúft á hönd legg eg nú, Faðirinn blíði! þín hjálpin trú mér hlífi nú, Herrann Jesú! hörmúng þó á mig stríði.

4. Luckan mín öll á láði snjöll, leikur í valdi þínu, hvað vilji' er þinn um haginn minn í hvert eitt sinn, hjartanu gefjast mínu.

5. Gæðskan þín víst mér gleymir sízt, glaður því vil eg þreja, bið'lundar bið, eg býst þá við, blessun og frið best muntú yfir mér segja.

6. Ríkdómsins hér ei óska mér, örbyrgð ei lát mig pína, mitt daglegt brauð mér gef þú, Guð! en andar auð, aldrei láttu mig týna.

7. Jesús með dáð, Jesús með náð, Jesús í lífi' og dauða, Jesús mín hlíf, Jesús mitt líf, við Jesúm eg blíf, Jesús er bótin nauða.

8. Mín' sál við þig muu halda sig, mörg þó að syndin særi, þitt blessað blóð er borgun góð, það bætir móð, bróðir minn, Guð! ástkjæri!

9. Veröld! veröld! þitt vols og völd, vel máttu öðrum léna, affegi' eg þér að una hér, hef heitið mér, hærstum Guði að þéna.

10. Ráð mér, Guð minn! á jörð um sinn, öllum svo lostum hafni, unn mér þíns liðs og ástar síðs, þá er eg til friðs, í Jesú Kristí nafni.

## Þacklætis - og Bænar - vers.

Lagið: Heyrðu, Faðir! hátt eg kalla.

Hærsta lof af hjartans grunni, hér sýng eg með raust og munni, Jesú þeim mér ætíð unni, og aðstoð veitti á barndóms tíð.

2. Alla tíma að mér gætti, ekkért svo mig skaða mætti, öll mín Jesús blíður bætti, barndóms bót á æsku-tíð.

3. Lifi' eg enn og lof þér segi, Lausnari minn! á nótt og degi, náqvæm Jesú náð sig hnegi, nú til mín á alburs-tíð.

4. Líkams burðir þegar þrjóta, þinnar vildi' eg gæðsku njóta, láttú mig, Jesú! hressíng hljóta, ef hj.ra skal eg á elli tíð.

5. Góðvild, trygð og orð þitt eina, allra sé mín bótin meina, styrki mig, Jesú! hönd þín hreina, á hverri og einni mótgángs tíð.

6. Ráð þú huga, hjarta' og sinni, holdi líka' og sálu minni, að eg, Jesú! elsku þinni, fyrir enga sleppi gleði-tíð.

7. Ill ráð heims mig engin villi, andi Guðs mitt geðið stilli, Jesú! þinni haldi' eg hylli, héðanaf alla lífsins tíð.

8. Minnst' á mig í miskun þinni, þá mál er komið að hérvist linni, sjá til, Jesú! sælu sinni, sálin mín á dauðans tíð.

9. Vek upp hold af svefni sínum, sem þú lofar í orðum þínum, vægi, Jesú! málum mínum, miskun þín á dómsins tíð.

10. Reiknaðu mig, fyri blóð þitt blíða, blessaðann meðal þinna lýða, leyf mér, Jesú! að lesa þér fríða, lofgjörð um eilífa tíð.

## Harmagrátur þess mótlætta og af Guði huggaða.

Lagið: Hvað skal oss ángra' í heimi hér.

Á einum Guði er allt mitt traust, engu skal eg því kvíða, ángur míns hjarta efalaust, ásjer hans mildin blíða; en þó heim-

úngar efnin vønd, á mig frekt gjørt ad leita, almáttug Drottins hægri hønd, hún kann því øllu' ad breyta.

2. Innra mín sála ángur ber, optlega má þad finna, qvídandi þúngum hefndum hér, til hverra' eg gjørdi vinna, samvitskan hrædist synda grønd, sorgir því hugann mæda, almáttug Drottins hægri hønd, hún kann þad best ad græda.

3. Ytra er hold af harmi þjád, hardlega krossinn þreyngir, holinmædinnar þverrar dád, þess meir, sem tímann lengir, hvergi má fást um løg né lønd, lækning vid eymdar qvilla, nema míns Drottins hægri hønd, hún kann allt bøl ad stilla.

4. Rálega er sú engin tíd, ad mér ei sturlun færi, ytra barátta, innra stríd, ønd og líkama særir; hverr kann vid slíkn reisa rønd? rádlaust er holdid veika, láti þó Drottins hægri hønd, hjartad mitt aldrei skeika.

5. Mannanna stod og styrkur bregdst, stofnar þad opt til nauda, æfin med sorgum áfram dregst, endar lokšins med dauda, þá hljóta skiljast hold og ønd, og hérvist lífsins dvína; almáttug Drottins hægri hønd, hún geymi sálu mína.

6. Í mínum Guði' eg huggun hef, hverju, sem ódru sætir, mig á hans vald og vilja gèf, veit eg það hann mín gætir, þó synda, eymda' og sorgar bønd, sárt vilji hjartað meiða, almáttug Drottins hægri hønd, hún mun þau af mér greiða.

7. Trúr er minn Guð, sem treysti' eg á, trúr er Jesús minn Herra, hans blessuð forsjón best mun sjá, nær bøl og eymd mín skal þverra, sem bylgjur hafs við sjáfar strønd, sín takmørk ei forláta, eins skamtar Drottins hægri hønd, hverri sorg tíð og máta.

8. Vil eg nú gjarnan vera til friðs, vil eg því engu qvíða, vil 'eg af Drottni vænta liðs, vil eg svo þreja' og bíða; minn Herra Jesús meinin vønd, mýkir og allann trega, hans almáttuga hægri hønd, hjálpi mér eilíflega!

## Sálmur til Jesú Krists.

Lagið: Heyrðu, Faðir! hátt eg kalla.

Heilagur Andi Guðs míns góða, géfi svo mína túngu fróða, hún kunni þér til lofs að ljóða, líknsamasti Jesú minn!

2. Eptir þér mig láttu lánga, á lífsins vegi kénn mér gánga, svo eg megi

hann fögnud fánga, fylgja þér eptir, Jesú minn!

3. Þú ert vor vegur í himna hædir, helgast oss þitt ordid frædir, gloggt vid oss í Ritníng rædir, rádhollasti Jesú minn!

4 Lifandi vatns hinn besti brunnur, brautin lífs og sannleiks-munnur, af sjálfs þíns ordi sért' mér kunnur, signadur Herra Jesú minn!

5. Gud ertú' af Gudi sönnum, géfinn til lausnar töpudum mönnum, daglega þína dygd vér könnum, dásamasti Jesú minn!

6. Ljós ertú' af ljósi skjæru, í ljósi þínu mjög frábæru, ljósid sjáum vér lífs med æru, lofadur sértu Jesú minn!

7. Sá, sem ad þér trúir og treystir, trygdin dýr, sem lýdi leystir, med þínum Anda hann hughreystir, þýdur og blídur Jesú minn!

9. Sá hinn sami, þó sofni' úr heimi, sæist ei af qvala-keimi, sál hans trú' eg sjálfur geymi, signadur Herra Jesús minn!

9. Hverr hann lifir í trúnni traustur, tíðt í gódum verkum hraustur, hann mun byggja himna-klaustur, hjá þér sjálfum Jesú minn!

**10.** Sætleik ber af sykri öllu, þitt signad nafn á hvert vér köllum, eilífa víst í himna höllum, hefir útvegad Jesús minn!

**11.** Fyrirgéf þú mér löstu leida, líka vil eg þig feginn beida, lífsins braut mér gjördú greida, Græðari blíður, Jesú minn!

**12.** Þeisu veit eg þú munt játa, og það ei mér á móti láta, af því gjörir sig önd mín káta, í þér sjálfum Jesú minn!

**13.** Allt er eins og eg þig sjái, einvalds Herrann krapta hái, med trúar hönd eg til þín nái, tignar dýrstur Jesú minn!

**14.** Þú géfur mér þitt sakleysi, þá eg skal frá veraldar hreysi, beint eg minn þá bústad reisi, hjá bygdum þínum, Jesú minn!

**15.** Þínu réttlæti þú mig klædir, þar med alla meinsemd grædir, dags mig efsti dómur ei hrædir, duga munt þá mér Jesú minn!

**16.** Huggunar styrk síns heilaga Anda, Herrann géfi mér lýds og landa, svo eg kunni strída og standa, stödugur jafnan Jesú minn!

**18.** Dýrd sé Gudi Drottni mínum, dýrstum Födur á himnum sínum, med eingétnum Syni sínum, sem ert Herra Jésú minn!

**18.** Bænheyr þú mig blídur og sætur, bænheyr þú mig, Gud! ágætur, bænheyr

þú þitt barn, sem grætur, bænheyr þú mig Jesú minn!

# Fjórdi Flockur,

innihelldur

## Sálma um Dómsdag

og

## kristilega burtfør.

### Um mannsins fállvalt líf og hann síðasta dag.

Lagið: Mörgunar Jüda annars dags.

Géf eg mig allann á Guðs míns náð, geymi hann allt mitt efni' og ráð, hvað helzt sem kémur hendum að, í hverjum stað, hans miskun veri befalað.

2. Minna lífdaga stærð og stund, stendur í Guðs míns Føðurs hønd, nær, sem hann vill þá vil eg strax, vera til taks, gladur bída þess góða dags.

3. Af því eg veit og eflaust finn, Endurlausnari lifir minn, 'það er mín trú: hans bleßað blóð, sé borgan góð, sem mig hreinsar af synda móð.

**4.** En þó að lágt mitt liðna hold, liggi, fúni og verði' að mold, samt finnur ecki sálin deyð, né sorgar leið, því hún er frí frá allri neyð.

**5.** Æ! hvað er þetta auma líf? ángist, harmqvæli, neyð og kíf, þá það er best og blómgast glæst, er bölið nærst, brádlega kémur sorgin stærst.

**6.** Hvað er mann, nema mold og jörð, maktarlaus, dofin þurr og hörð? í heiminn fæðist híngað ber, hverr helzt hann er, hefir eckért í burt með sér.

**7.** Hann kann að vera' hraustur í dag, heill og vel fær með gleði plag, en á mórgun sjúkur og sár (svo til það gár), máské líka framliðinn nár.

**8.** Allteins og blómstrið gult og grænt, glansandi stendur fagurt og vænt, á augabragði er orðið þurrt, enga ber kurt, fellur, visnar og fýkur á burt.

**9.** Með þeim skilmála maður hverr, af móðurlífi fæddur er: hann skal burtdeya héðan vísk, þá varir sízt, sæll er sá, sem þar vel við býst!

**10.** Því veldur Adams synda sekt, síðan þess allir guldu frekt, um álfur heims finnst

ecki neinn, já, aldrei einn, sem af henni kann segjast hreinn.

**11.** Þar stoðar hverki góz né gjald, gøfugt ætterni, heffð né vald; fljótt skal hverr einn með sølann krans, í dauðans dans, dvelja má ei við kallið hans.

**12.** Þá er líkaminn følur og fár, fegurðin øll í burtu gár, liggur svo í saurugum leir, hann sjest ei meir, sálin um eilífð aldrei deyr.

**13.** Hún skilst við holdið hér til sanns, hreisið afleggur líkamans, óðauðleg þángað allfljótt fer, sem ásett er; um það oss øllum þenkja ber.

**14.** Hverr, sem Guðs orð og Herrans náð, hefir um lífsins tíð forsmáð, og svo deyr burt yðrunarlaust, fyrir útan traust, hans sál fær eilífa harma-raust

**15.** Æ! vesæl er sú auma sál, útrekin strax í vítis bál, døpur þar bíða dómsins má, forðæmdum hjá; góði Jesú! mig geym þar frá!

**16.** Hverr, sem Guðs orð elskaði nú, á Jesúm setur fulla trú, sálin hans engu qvíða kann, qvittuð við bann, hún er innleidd í himna-rann.

17. Augliti Guds fær ætíd sjá, engin harmqvæli minnist á, bídur dóms=dags í dýrri víst, er aldrei tvíst; þad géfi' oss Gud fyrir Jesúm Krist.

18. Við básúnunnar hvellann hljóm, heims þjód kémur strax fyrir dóm, ráds=mennsku sinnar reikníng þá, hverr halda á, svo allir megi þar uppá sjá.

19. Upp úr grøfunum allir senn, íllir og gódir rísa menn, þar kémur víst hver sál til sanns, þess sama manns, lídur aptur til líkamans.

20. Svo sem einn hirdir saudi' og kid, sundurgreinir á hverja hlid, ógudlegir, sem allir sjá, med eymd og þrá, til vinstri hand=ar verda þá.

21. Ránglátá stodar ei vél né vørn, vitskan løgklókra slægdargjørn, þá hefir eckért afl né makt, enginn fær sagt, eitt ord á mót' eda framlagt.

22. Ómøgulegt er ad flýa frá, frækleik=ur enginn gyldir þá, vitni sakanna sannar gløggt, á sérhvern snøggt; hvar mun þá standa hjartad kløckt?

23. Allar sképnur med einni raust, á=klaga sekann vægdarlaust, samvitskan sjálf

svarar til hradt (þad er þó satt), fyrir þúsund vitni hún gengur gladt.

24. Öll verkin þar med ógudlig, opinberlega sýna sig, hrópandi sjálf sér hefndar laun og heljar-raun, eilíft þad gyldir qvalanna kaun.

25. Atqvædi Dómarans aptur á mót, andsvörin géfur þessi fljót: víkid frá mér illgjörda menn, allir í senn, eg kannast ei vid ydur enn.

26. Vér, sem ad vonum Jesúm á, verdum til hvgri handar þá, reikníngs þó skuldin skorist þar, ei skadar par, af því hún ádur útslétt vár.

27. Pad sæta Jesú sídu blód, sem af hans helgu benjum stód, allann vorn reikníng af hefir mád, fyrir elsku og dád, þad hlutum vér fyrir Herrans nád.

28. Ránglliga hef' eg höndlad margt, holdsins fylgjandi vondi art, upp til dómsins mér ei er fært, enn sídur vært, nema fyrir Jesú nafnid skjært.

29. Pad er vor allra huggun hér, hjartad þá qvídinn synda skér, sá, sem dæmir hann dó á kross, gaf gjald fyrir oss, þad var hans blessadur benja foss.

**30.** O madur! madur! hygg ad hér, hugsa þig um medan tíminn er, nú er þér bodin nádin stærst, Guds elskan glæst, í þessu lífi líkn sú næst.

**31.** Dyr lífs þér standa opnar enn, ad því skyldir þú gæta senn, út stendur breidd-ur fadmur fús, fridur Jesús, hann býdur þér í þetta hús.

**32.** Ef þú aktar meir aud og seim, ad-hyllist þenna vonda heim, og gégnir ecki Guds þíns raust, né géfur traust, útrekinn verdur efalaust.

**33.** Yfir Jerúsalem Jesús grét, jafnan áminníng', heyra lét; þeir vildu ecki ad því gá, fyrir illsku' og þrá, þúngar hefndir því hlutu' ad fá.

**34.** En ef þú ydrast efalaust, á Jesúm setur von og traust, þá er hans nád þín vernd og hlíf, hjálp, heill og líf, svó aldrei kénnir qvalanna kíf.

**35.** Af augum þínum öll þín tár, ást-rík hans þerrar höndin klár, hjartans fögnud heilögum hjá, himninum á, endalaust muntú ega' ad fá.

**36.** Gledjumst hér vid öll Guds börn trú, gód og fullviss er huggan sú, heim-

von er sæt, þó hér sé kaldt, í hriggdum allt, eilíft er líf oss ófallvalt.

37. Gud unni oss ad ydrast hér, á medan nádar-tíminn er, Drottinn! géf hæga dauda tíd, frid, fyrr og síd, eilíft líf med úrvoldum lýd.

## Bæn um kristilega burtför.

Lagid: O Fadir minn! eg þrællinn þinn.

O! nádar nægd, nægst heill og frægd, nægst eifkan Jesú Krísti, nægst nádar lind, nægst bót vid synd, nægsti huggarinn besti, nægst hann líf er, nægstann krapt ber, nægsta hjálp vill oss senda, Jesú Guds Son! gjordú þá bón: géf mér farsælann enda!

2. Eg veit ad mér, sem ødrum hér, er ákvørdud stund ad deya, eg bid, Gud! þig, ó Gud! lát mig, gott strid hér kunna heya, vel skiljast vid, og fara' í frid, fá svo í dýrd ad lenda; Jesú Guds Son! gjordú þá bón: géf mér farsælann enda!

3. Veik'eika minn og óstyrkinn, af kann Jesús ad taka, øll brot og brest, bøl holdsins mest, bætir og grædir líka; en mér, þá dey, þad efa' eg ei, eilíft vill frelsi senda.

Jesú Guds Son! gjörðú þá bón: géf mér farsælann enda!

4. Sála mín kjær! kross hvern, sem fær, krapt þinn lát ecki buga, sú kémur tíð, þolinmóð þýð, þú fær vel gladann huga, þó hér í heim með þýngslum þeim, þér vilji Drottinn benda. Jesú Guds Son! gjörðú þá bón: géf mér farsælann enda!

5. Sárbedinn blídt með tárum tídt, trúfasti Gud hinn sanni! andlátid sætt með gledi gædt, géf þú mér veikum manni, láttú mig þá leidast vel frá, ljótt eckért kunna' ad henda. Jesú Guds Son! gjörðú þá bón: géf mér farsælann enda!

6. Þú, mildi Gud! þrenníng blessud, þad lísid, sem eg unni, sé þér lof, dýrd, Drottinn minn! skírd, djúpum af hjartans grunni. Á dauda-stund, í dýrdar hönd Drottins fel' eg minn anda. Jesú Guds Son! gjörðú þá bón: géf mér farsælann enda!

## Umþenking Daudans.

Méd sinu lagi.

Oh! oh! hverr vill mig verja, valdi daudans fyrir, þá hann á líf vill herja, hverr vill sidsinna mér? Eg finn, opt finn,

veikleika mikinn minn, holdið við helju qvíð-ir, hræðist þær sorgar tíðir, ómildann óvin þann, ecki þó fordast kann.

2. Hverja stund honum móti, hleypur þó lífið manns-búin með bana spjóti, bíður því grimdin hans, nær fer, næmt þér nú og hvað meira er, heimili hjá þér hefir, hvert vakir eða sefur, umsitur ávalt þig, ei lætur merkja sig.

3. Frá því að fyrst þú fæddist, fylgir hann jafnan þér, og um í leyndum læðist, lönd og sjó hvar þú fer; hans ör, alsnør, umsitur líf og fjør, á sterkum boga stendur, strengur til hæfis bendur, óvart afgenginn finnst, opt þegar varir minnst.

4. Jafn-grimmur eins við alla, er hann á hverri tíð, børn, gamla, konur og karla, Kónga og aumann lýð, hvern þann, helzt kann, héðan burt hriffar hann, bæði lærða og leika, líka hrausta, sem veika, enginn um-flúið fær, øllum þeim niðurslær.

5. Fjærlægt þó flýja vildir, fær ecki hjálp-að það, hann kémur hvað sem gyldir, hittir þig í þeim stað; allt traust, er laust, inn um hvern múr hann brautst, góð orð og gjøf ei hyrðir, gull og silfur minnst vyrðir, ein liggur øllum leið, í gégnum sáraun deyð.

6. Allann fríðleik afmindar, úr dregur blóðið raudt, augnanna sjón og blindar, ysirbragð gjörir snaudt; heyrn skír, frá flýr, fegurð í folnun snýr, önd burt úr brjósti slitur, bæði mál og vit þrýtur, er lík fyrir utan tøf, útborið kaldt í gröf.

7. Eg veit það víst um síðir, vitja mun dauðinn mín, lísið frekt forirqvíðir, fær þar af sorg og pín, hug-deigt, hold veikt, heimsins til mjög er-hneigt, hvert á mót vorum vilja, við hljótum þó að skilja, grøfin ofbýður oss, ei er það léttur kross.

8. Þótt gllann heim eg ætti, auð og makt sérhvers lands, hjálpa það mér ei mætti, móti valdi dauðans; hvað má holds þá, harmur og qvíði ná? hví skal af því að þreytast, sem þó kann ei umbreytast? það er eitt sinn ásett, svo mun þó standa rétt.

9. Fyrst eckert finnst á jörðu, frelsi né hjálpar-ráð, mót qvíða' og heli hörðu, himneska bið eg náð, um lið og frið, ef þá skal skiljast við, dauðans ótta burtdrísi, dásamlega mér hlífi, ásýnd hans ógnarlig, aldrei svo skéfi mig.

10. Jesús sá Herra heitir, hel-pín fékk ysir makt, hann sigur finum veitir, sonn trú þar hefir á vakt, hans hér Andi' er, aflausn

daglega tér, í hans fögnuð og friði, fáum með Engla liði, holdlegri hérvist frá, himnesku lífi ná.

11. Í Guði því glaður deya, og glaður lifa vil, þolinmóðlega þreja, þeirrar himferðar til, hér gá heim frá, Herrans samvistum ná; því dauðann Jesús deyddi, dauðans beiskleik' og eyddi, er svo dauðans aðför, eilífs lífs réttu kjör.

12. Eg flý af hriggum huga, Herra Jesú! til þín, óttinn vill yfirbuga, auma samvitsku mín, vanmátt þann brátt þú veitst og holdsins hátt, andann lausu ljúfa girnir, líkaminn móti spyrnir, það er eitt þúnglegt stríð, þinnar eg hjálpar bíð.

13. Af móðurlífi mig leiddir, lifandi, Jesú minn! góðann veg síðan greiddir, Guðs barna' í felskapinn, og mér æ hér, í öllu hjúkrader, lát þér nú ecki leiðast, líf mitt og sál tilreiða, heimi og holdi frá, himneskri vist að ná.

14. Mig dirfir móti dauða, dauði þinn, Jesú kjær! grimd hans þú gjörðir snauða, gleði mér svoddan fær, vald traust hels braust, heftir og sundurbraust, öll fjötur ó-vinanna, oss veittir frelsun sanna, þar af fengum vér frið, feginn því skilst eg við.

**15.** Mitt hjarta' í hjarta þínu, hvílast lát, Drottinn minn! eins þitt svo aptur mínu, innsigla sérhvert sinn; Son þinn sé minn, sálar vísdómurinn, en hræring heilagur Andi, huggun og stjórn eflandi, til alls góðs medan er, einkum þá deya fer.

**16.** Gudi sé lof! sem greidir, gøtu og veginn minn, um dyr mig daudans leidir, í dýrdar ríkid inn; lát heim, hans seim og ho'd med bádum þeim; hafa sinn hárt og læti, Herrann minn Jesús sæti, mér standur mildur hjá, mest þegar liggur á.

## Annar Sálmur somu meiningar.

Lagid: Dagur í austri øllum.

Allteins og blómstrid eina, uppvex á sléttri grund, fagurt med frjófgun hreina, fyrst um dags morgun-stund, á snøggu augabragdi, afskorid verdur skjótt, lit og blód nidur lagdi, líf mannlegt endar skjótt.

**2.** Svo hleypur æskan únga, óvissa daudans leid, sem aldur og ellin þúnga, allt rennur sama skeid. Innsigli engir fengu, uppa lífs-stunda bid, en þann kost undirgengu, allir ad skiljast vid.

3. Dauðinn má svo með sanni, samlíkjast þykir mér, slíngum þeim sláttumanni, er slær allt hvað fyrir er, grösin og jurtir grænar, glóandi blómstrið fríð; leir, stör, sem rósir vænar, reiknar hann jafn fánýtt.

4. Lífið manns hratt framhleypur, hefir það enga bið, í dauðans grimmar greipur; grösin tekur þar við, allrar veraldar vegur, víkur að sama púnkt, fetar það fús sem tregur, hvert fellur létt eða þúngt.

5. Hvorki fyrir hefð né valdi, hopar dauðinn eitt strik, fæst síst með fögru gjaldi frestur um augnablik, allt hann að einu gildir, hvert ílla líki' eður vel, bón ei né bræði mildir, hans beiska heiptar-þel.

6. Menn vaða' í villu' og svíma, veit enginn neitt um það, hvernin, á hverjum tíma, eða hvar hann kémur að. Einn vegur öllum greiðir, inngáng í heimsins rann, margbreyttar lítst mér leiðir, liggi þó út þaðan.

7. Afl dauðans eins nam kreinkja, alla í veröld hér; skal eg þá þurfa' að þenkja, hann þyrmi einum mér? Adams er eðli runnið, í mitt náttúrlegt hold, eg hef' og þar til unnið, aptur að verða' að mold.

8. Hverki með hefð né ráni, hér þetta líf eg fann; sálin er, svo sem að láni, samtengð við líkamann; í Herrans höndum stendur, að heimta sitt af mér. Dauðinn má segjast sendur, að sækja hvað Skaparans er.

9 Nú vel! í Herrans nafni, fyrst nauðsyn ber til slík; jeg er ei þeirra jafni, sem jörðin geymir nú lík; hvenær sem kallið kémur, kaupir sig enginn frí; þar læt eg nótt sem nemur, neitt skal ei qvíða því.

10. Eg veit minn ljúfur lifir, Lausnarinn himnum á, hann ræður öllu yfir, einn heitir Jesús sá, sigrarinn dauðans sanni, sjálfur á krossi dó, og mér svo aumum manni, eilíft líf víst tilbjó.

11. Með sínum dauða' hann deyddi, dauðann og sigur vann, makt hans þó afli eyddi, ekkért mig skaða kann; þó leggist lík í jörðu, lifir mín sála frí, hún mætir aldrei hörðu, himneskri sælu í.

12. Jesús er mér í minni, mig á hans vald eg géf, hvert eg er úti' eða inni, eins þá eg vaki' og séf, hann er mín hjálp og hreysti, hann er mitt rétta líf, honum af hjarta' eg treysti, hann mýkir dauðans kíf.

13. Eg lifi' í Jesú nafni, í Jesú nafni' eg dey, þó heilsa' og líf mér hafni, hræðist eg daudann ei; daudi! eg óttast eigi, afl þitt né valdid gyldt, í Kristí krapti eg segi: kom þú sæll! þegar þú vilt.

## Um kristilega burtför.

**Lagid: Kom Andi heilagi.**

Enn ber eg andar qvein, upp til Guds hæda, hann kann mín margføld mein, mjúkast ad græda.

2. Andvarp mitt ecki hann, út frá sér rekur, hug gledur harmfullann, høndum vid tekur.

3. Mitt daglegt yndi er, á hann ad qvaka, eins á nótt sál mín sjer, sætleik hans vaka.

4. Er hún svo yfrid lyst, eptir þeim Herra, sem vei øld vøkva þyrst, vid sumarþerra.

5. Rík girnd sú rennir opt, rétt ósedjandi, huganum hátt í lopt, hér þó eg standi.

6. Í munninn falla fljótt, fossarnir tára, innvortis er samt hljótt, andvarpid sára.

7. Kinnbeinin þar med þvæ, þau nockud svída, Gud sjer hvad sárt eg fæ, forgir vid strída.

8. Nær skal sú sálar girnd, sødd full-komlega, ad aldeilis út sé fyrnd, orin míns trega.

9. Ad sál og líka líf, líta þann nái, sem endar allt mitt kíf, eptir eg þrái.

10. Nú vill þad hardla heitt, huga minn beygja, eg á þad eptir eitt, enn nú ad deyja.

11. Uggur sá ángrar mig, eg hlýt ad styggja, Drottinn! svo þráfaldt þig, þenna heim byggja.

12. Væri afstadid stríd, stilltist sú hrædsla, fullkomin bættist blíd, bartskérans grædsla.

13. Jesú minn! leggdu lid, láttú mig trúa, þér, heitt eg þess nú bid, þar frá ei snúa.

14. Holds-veikin þrýtur þá, þinn sætleik geymi, útfør vil feginn fá, frá þessum heimi.

15. Þín ord mitt lífga líf, líka þó deyi, þar vid óbilugt blíf, bregdast þau eigi.

16. Því verdur þelid hraust, þó daudinn komi, luckest mér lofad traust, líka' í Guds dómi.

17. Eg veit ad Jesús minn, upp kann mig vekja, med holdi mín beinin, mun aptur þekja.

18. Med sama sjónar hvarm, sem hér nú væti, sje eg hann sviptur harm, í sigur-kæti.

19. Af er þá áugistar, øll raun og mæda, hrekst eg ei hrumur þar, í hreinum klæda.

**20.** Mína eg fundið fæ, fagnaðar glaða, sem blómgað sumar-fræ, sætra láuf-blaða.

**21.** Djöfull og dólgar hans, dýrð þá ei fella, sem hér í sorgar-dans, sífellt mig hrella.

**22.** Því vil eg stríðar-fúls, frá hrigðar-djúpi, afleggja holdsins hús, svo hylist hjúpi.

**23.** Lamb Guðs, sem líf mér fann, láttú mig vera, sáttann við sérhvern mann, samt þig, minn Herra!

**24.** Géf þú mér góða menn, grof mína taka, og meðan anda enn, yfir mér vaka.

**25.** Guð! lát mig engin orð, af munni leiða, sem búa sálu morð, sælu mig sneiða.

**26.** Yfir allt annað hitt, unn mér að hreppa, hold og blóð helgast þitt, huggun ei sleppa.

**27.** Jesú Guðs sanni Son! send mér til handa, þá hærstu heilla von, heilagann Anda.

**28.** Fyrir stríð strángast þitt, sterkasti Drottinn! andlátið mjúkt géf mitt, mér sé bær sóttin.

**29.** Engann lát ótta' af mér, afgéngnum standa, svæf þú mig sætt í þér, sjálfum til handa.

**30.** Meðtak þú mína önd, minn Jesú Kristi! í þinni heilla hönd, hún sé og gisti.

**31.** Láttú, Guð! þeckann þinn, þjóð einhvern vera, foríngja frómann minn, fagrann saung géra.

**32.** Sem lidid lík og gröf, ljúft sé ad bleſsa, og láti' á enga töf, ord Guds ad meſsa.

**33.** Launa þú ſjálfur ſvo, ſaung þann og leſtur, Drottinn! um tíma tvo, trúr hirdir beſtur.

**34.** Hér med þig blídann bid, brunnur alls góda! ſend þú þeim ſífellt lid, ſem þar til ſtoda.

**35.** Ödliſt þeir eilíft gagn, audgiſt á foldu, ſem bera ſveita magn, ad ſópa' á mig moldu.

**36.** Sofnadur ſídan þá, ſæll mun uppreiſtur, erfidi öllu frá, af Gudi leyſtur.

**37.** Allt hvad minn gódi Gud, gaf mér í heimi, ei nú taki aptur vid, anniſt og geymi.

**38.** Hann veri fadir fús, födurleyſíngja, miſkun og matar-hús, minna veſlínga.

**39.** Lýſi þeim lífs á braut, línkind á breidi, og ſvo úr allri þraut, um ſídir leidi.

**40.** Ei iæt þeim eptir mig, aud, gull né ſilfur, heldur, Gud! helzt bid þig, hjálpa þeim ſjálfur.

**41.** O minn Gud! mín er þad, mjúk bæn og vonin, þann hópinn þér tak ad, þinn fyrir Soninn.

**42.** Eins medan erum vær, øll hér á lífi, þín blessuð náð sé nær, við nauðum hlífi.

**43.** Vort fátækt hafðú hús, í hendi þinni, Drottinn Guð friðar-fús, fjófga það inni.

**44.** Þín orð þá bestu björg, brauð, hús og klæði, gefi þín gæðskan mørg, Guð! þolinmæði.

**45.** Einn sértú, sanni Guð! sem með oss vendi, að sækja allann auð, í þitt haglendi,

**46.** Drottinn minn hardla heitt, helst þar um beiði, hætt svo ei saki neitt, sál héðan leiði.

**47.** Herrà! mig heimann bú, í hendur þínar, leið mig í lífsins trú, um lífstíð mína.

**48.** Ei láttú synda síð, saurga mitt hjarta, svo megi sætt með frið, samvitskan skarta.

**49.** Hátt og djúpt heitum foss, hjartans útrenni, barn Guðs, sem bar sinn kross, í brjósti' um mig kénni.

**50.** Mjøg hætt er marga stund, minn hrellist hugur, géf náð af góðri lund, Guð almáttugur!

**51.** Eg trúi á þig fast, almáttug Vera, þann skjøld fyri skeytið hvast, skal eg frambera.

**52.** Drottinn! eg þekki þig, þér því befala, ørdúngis allann mig, án hjartans kala.

53. Særðú og grættú geð, Guð! sem þér lyndir, auðmjúk bæn mín er með, minnst ei á syndir.

54. Eg á mig ecki hér, í veröldinni, Drottinn! eg eign þín er, af miskun þinni.

55. Því veit eg, hjerð þinn sauð, sjálfs, þó hér arki, þinn þeckir allann auð, af egin marki.

56. Uffins seðst ecki qverk, af sálu minni, þín hendin harðla sterk, hlífir hjörð sinni.

57. Hér beygi' eg hjartans kné, hjálpar sárbæni, rétt sem ein ambátt sé, upp til Guðs mæni.

58. Yfirgéf ecki mig, í þinni bræði, géf fundið géti' eg þig, Guð! mitt hjálpræði.

59. Frá einni eiktar stund, allt fram til hinnar, bíð eg með ljúfri lund, lífs komu þinnar.

60. Gjörðú mí, Guð minn! snart, að gráti mínum, börðum reir bend-ei harðt, blóð-keyptum þínum.

61. Höfuð mitt seka sé, sem kjöltu móður, lagt í þitt líknar kné, Lausnarinn góður!

62. Burt mér ei bljúgum hrind, böðuls í hendur, fætur þín faðmi bind, Frelsarinn kénndur.

63. Ødin mín sýgur svo, sár þinna rista, eins og brjóst-brunna tvo, barnid ør-þyrsta.

64. Mér gengur mergjar til, miskun útdregin, mitt ángur mýkja vil, mjøg hjartans feginn.

65. Þadan um eilíf ár, aldrei burtvenda; Drotrinn! þinn heidur hár, haldist án enda.

66. Eja! þér, gódi Gud! gøfgun sé framen, um eilífd ár og síd, Amen! já, Amen!

## Andláts Sálmur,

sem Skáldid qvad á sóttar sænginni.

Lagid: Sá frjáls vid løgmál fæddur er.

Herra Jesú! eg hrópa á þig, hjartans því kraptar dvína, bænheyr þú Drottinn mildur mig, fyrir miskunsemina þína.

2. Bænheyr mig fyrir þín blódug sár, og benja-fossinn rauda, bænheyr mig nádar Kóngur klár, og kenndu til minna nauda.

3. Bænheyr mig fyrir þinn trega og tár, og titrandi qvalanna pínu, bænheyr mig fyrir þitt sídu-sár, og svaladu hjarta mínu.

4. Ljúfur Jesú! eg leita þín, lát mér ad hvarfi verda, ángrád er nockud ødinmín, ad vilja þrautir herda.

5. Láttu mig finna líkn hjá þér, ljúfustum edla-bródur, húss-krossi litlum hægdu' á mér; heyrdu' það, Gud minn gódur!

6. Þó vil eg bikar þenna af, med þakklátu hjarta drecka, sínt þó mér finnist súta-kaf, svaladu mínum ecka.

7. Herra! géf mér í hjartans géd, heilaga þolinmædi, umburdarlyndi einninn med, og eilíf sálar-gædi.

8. Kjærleikans eld þú qveik í mér, kref eg þess Gud af hjarta, í andlegum hjúskap æ med þér, ønd mín svo nái' ad skarta.

9. Drottinn! þú veitst minn þánka' og þel, og þorfina alla mína, þína í hønd eg það allt fel, þyrstur í miskun þína.

10. Aldur minn þegar úti er, eymdum trúi' eg þá linni, fyrir blód þitt, Jesú! bjarga mér, á banasænginni minni!

11. Hressi mig þá þitt blessad blód, beint svo ad trúar stafni; heim eg þá réttu hjálpar slód, haldi í Jesú nafni.

12. Bænheyr mig himnesk blídan væn, og blessadur edla-bródir, gleym þú ei minni gjørdri bæn, gádu' hennar, Jesú gódi!

13. Andláts þá stundu yfir mig slær, allt mál og megn vill dvína, heim til þín, Fadir hjarta-kjær! hafdu sálina mína.

14. Hægann géf dauda og hédan = før, hvíld þar med holdi mínu, í upprisunni þau edla kjør, í augliti ad gledjast þínu.

15. Láttu mitt hjarta segja med sér, og svoddan trú í því standa: Herra Jesú miskuna mér, medtak þú svo minn anda!

16. Falli svo til eg missi mál, minn fyrir afgángs tíma, í mitt hjarta, sinni og sál, svoddan ord vyrdstu ad líma.

17. Þá er eg hólpinn, þad er mín trú, þessa bón vyrdst mér veita, andliti þínu ad mér snú, eins sem eg þess nú leita.

18. Feginn vil eg, sem fljótast nú, frelsast úr daudans skordum, augliti þínu ad mér snú, eins og til Péturs fordum.

18. Sæti Jesú! mig svíptu pín, Sálminn gjøri eg svo enda, hrelldu svaladu hjarta mín, huggun vyrstu mér senda.

## Annar Andláts Sálmur,

sem Skáldid orkti sídast á sóttar = sænginni.

Lagid: Skaparinn stjarna Herra hreinn.

Gud komi sjálfur nú med nád, nú sjái Gud mitt efni og rád, nú er mér, Jesú! þörf á þér, þér hefi eg treyst í heimi hér.

2. Eg hefi' aldrei í nockri naud, naud=staddur bedid utan Gud, Gud hefir sjálfur gégnt mér þá, Gud veri mér nú líka hjá!

3. Agvørdud mín og mæld er stund, mitt líf steudur í þinni hønd, andlátid kémur eitt sinn ad, einn veitstú, Gud! nær skécur þad.

4. Nú hefi' eg þar á nockurn grun, ná=lægjast þessi stundin mun, holdid mitt er af harmi þreytt, hafa kraptarnir sér umbreytt.

5. Finn eg ad augum førlast sýn, falla tekur nú heyrnin mín, hendurnar hafa mist sitt magn, minn fótur vinnur eckért gagn.

6. Líkaminn allur særdur sótt, svitnar og dregur af mér þrótt, einnig þreyngist um and=ardrátt, eg vænti minnar hvíldar brádt.

7. Dofna varir og túngan treg, tala því ecki orka eg, hjartad svo margskyns mæda lýr, mannleg hjálp øll sér frá mér snýr.

8. Sárbeidi' eg Gud af gódri lund: géf þú mér hæga daudastund, ofbjóda lát ei andláts deyd, aumka þig yfir mína neyd!

9. Vitnisburd þann frá eilífd átt, ad þú hjálpir á bestann hátt, þá endast megn og mannleg stod, miskuna þú mér, Drottinn Gud!

10. Láttú nú sannast lidid þitt, líttu á qvein og andvarp mitt, eg sár=grátbæni, Son Guds! þig, syndirnar skyldú nú vid mig.

11. Uslegid bid eg allt þad sé, er eg þig Drottinn! módgadi, óverdugum til góda gjör, Gud! sem optar, og hjálpa mér.

12. Fyrst þú hefir svo híngad til, haft stóra nád og kjærleiks il, í frammi vid mig fallinn mann, frelsadú mig nú naudstaddann.

13. Þú hefir fyrri fyrir mig strídt, fengid mér sigur = merkid nýtt; Jesú minn! nú þín frægdin frid, fyrir mig vinni daudans stríd.

14. Géf þú mér eina trausta trú, til þín, minn hjartans Herra! nú, í gégnum daudans grimma hlid, Gud láti komast mig med frid.

15. Sæktú, minn Gud! hvad sjálfs þíns er, sálina þá, sem gafstú mér, skildu hana nú hægt vid hold, hvílast lát þad í jardar mold.

16. Hún verdur fegin hvíldar fund, haft hefir marga mœdu stund, vosbúdar = nótt og nauda slug, nærsta barist med veikann dug.

17. En þad hún hefir afborid, er skéd fyrir hins hærsta lid, hann hefir sinn hinn sanna krapt, svo í þeim breiska ríkann haft.

18. Opt hefir lífinu anda nært, erfidi hjartans stillíng fært, úrrædi er eg engin sá, í sínu skauti bar mig þá.

19. Legg þú mig nú á nádar = brjóst, nafnfrægi Gud! sem heitir ljóst, hjúkrun, adstod og hjálpar = lid; hjartanu géf nú sannann frid.

20, Af þreyngslum minnar módur lífs, mig leiddir þú án daudans kífs, leys nú af þreyngslum líkamans, lifandi sál til himna ranns.

21. Strax, sem mín augna uppkom rós, eg fékk ad líta heimsins ljós, fyrr enn eg allur fæddur var, fékkstú mér þá hid nægsta svar.

22. Svo láttú mína sálu nú, sjá þig í einni réttri trú, vertú sjálfur ljós = módir mín, mín sál fædist í hendur þín.

23. Í skírninni mér skénktir þig, skal eg þér, Jesú! aptur mig, grandvarlega med gódri lund, géfa á minni dauda = stund.

24. Obedinn tókst mig ad þér fyrst, enn nú, sárbid eg, Jesú Krist! med trúar = hendi þér haldi' eg fast, Herra! lát mig ei vanmegnast!

25. Strax, sem mér leystist túnga og tønn, til mín barst lífsins fæda sønn, af øldum kálfi sál mín saug, Sonar Guds blód, þá dýrstu laug.

26. Heilagur Andi hærstur þinn, hann er sá tiygda = hríngurinn, sem Sonur Guds

mér gaf á hønd, giptast þá vildi' hann minni ønd.

**27.** Skínandi føt mér skenktir þá, að skyldir mig í þeim aptur sjá, bæði á dægri dauða míns, Drottinn! og ríki Føður þíns.

**28.** Eg kém hér framm með eckért mitt, elskhugi minn í brúdkaup þitt, sjá þú mig nú í sjálfum þér, saurugt er allt hvað með mér er.

**29.** Eg hef svo marga mæðu stund, mænt eptir þínum dýrðar fund, finndú mig nú, þó liggi' eg lágt, lát mig ei ætíð ega bágt.

**30'** Sje eg þig gégnum svart eitt ský, sitjandi himnaríki í, eg á nú til þín ecki lángt, en mér finnst bæði hardt og stráugt.

**31.** Eg styð mig nú við orðið þitt, erfiði léttú, Drottinn! mitt, sálin mín er af þúnga þjáð, þyrst og sár-húngruð eptir náð.

**32.** Deyf þú nú alla dauðans raun, Drottinn! gjald mér ei verdug laun, eptir náð þinni minnstú mín, minníngin lifir í mér þín.

**33.** Á náð legg eg mig Lausnarans, lífið mitt er í valdi hans, gæðskan þín hefir grát minn stillt, Guð! far þú með mig sem þú vilt.

**34.** Honum einum eg hef mig geymt, hans náð hefir mér ecki gleymt; raungóður, sem mér sjest nú hjá, sálu minni mest liggur á.

35. Lífsins pantinn mér lagðir þann, lifandi Anda heilagann, signetið það með sannri lyst, setur á hjartað Jesúm Krist.

36. En hvar Jesús í brjósti býr, býr þar hans náð og elskan dýr, synda qvittan og miskun manns, mitt líf það er í valdi hans.

37. Eg treysti Guði uppá öll, orð hans og held þau minn grundvöll, jörð og himnar forgánga greidt, en Guðs orð skeikar ecki neitt.

38. Eg vil í Drottni sofna sætt, samvitsku stríðið allt er bætt, dauða-haldi eg Drottinn þrif, dýrstur gef þú mér eilíft líf.

39. Qveð eg í Guði góðann lýð, gledilegar þeim nætur býð, þackandi øllum þeirra styrk, þjónustu, hjálp og kjærleiks verk.

40. Ástkjæra þá eg eptir skil, afhenda sjálfum Guði vil; andvarpið sier hann sárt og heitt, segja þarf honum ecki neitt.

41. Unni hann ydur kjærleiks koss, qvitt á hann einn að skilja oss, gef þú það, Jesú Kristi kjær! kátir hjá þér að finnumst vær.

42. Hlýðni alla og þolið þýdt, það veiti Guð mér hardla blídt, gefi mig qvittann Guð og menn, grátbæni' eg þess af hjarta enn.

43. Lúinn anda eg legg nú af, lífinu ráði sá, sem gaf, í sárum Jesú mig sætt innvef, sálu mína eg Guði gef.

44. Láttu mig, Drottinn! lofa þig, med lofi þínu hvíla mig, ljósid í þínu ljósi sjá, lofa þig strax, sem vakna má.

45. Láttu mig færa fram þau hljód, fyrst og seinast, minn Drottinn Gud! ad lofa þig í heidri hár, haldist þín dýrd um eilíf ár!

## Um sælu Himnaríkis.

Lagid: Mikilli farsæld mælir sá.

Upp, upp mín sál! og ferdumst fús, fridararins borg ad ná, þar unundarsamleg eru hús, æskileg Gudi hjá, þar sáluhjálp án enda er, án dauda líf eilíft, án hrigdar gledin aldrei þver, ángri. þar verdur svipt, án mirkra ljósid aldrei dvín, eilífur gledidagur skín, veikleiki, ótti, vøl né þrá, verdur ei nockur þar, harmurinn enginn mæda má, mein ekkért snertir þar, géfi' oss ad ødlast gledi þá, Gud Drottinn allsherjar.

2. Madur enginn hér mæla slíkt, meta né skynja kann, hvad fagnadar-líf er farsælligt, frídum í himna-rann; Herrann vor Kristur sú er sól, sem ad oss forklárar, ljómum þar fyrir lambsins stól, líka sem stjørnurnar; augnanna sífelldt er þar lyst, álíta Herrann Jesúm Krist, eyrun vor

heyra ætíd fá, ylmandi raddirnar, sætur hljódfæra=saungur sá, sífelldlega hljómar, gladir æ syngjum gøfgun þá, Gudi til eilífdar.

**3.** Þar er prísud í þeirri borg, þrenníngin guddóms há, hennar um gjørvøll heyríst torg, hljód=fögur Musicá, þar er án elli æskan hrein, án veiki heilsan klár, þar snertir ei hid minnsta mein, mann neinn um eilíf ár, allri Drottins med Engla=hird, útvaldir búa í þeirri dýrd, hverrar gledinnar yndid er, augliti Guds ad sjá, ódaudlegleika íklædder, og eilífri birtu há, kórónur þeirra hefir hverr, høfdum gullegar á.

**4.** O! hvad farsæl ad er sú tíd, þá erum komnir þar, og eptir lidna heimsins hríd, hëitum Guds borgarar, frá allri mædu, eymd og þrá, erum þá lokfsins frí, heidur, dýrd, gledi hljómar þá, himneskn landi í; æ hvad fagnadar vegsemd vor, vera mun háleitlega stór, þá Endurlausnarinn afhendir, ástkjærum Fødur oss; fadminn á móti blídt breidir, býdur framm ástar=koss; hrigd og mæda þá horfin er, hørmúng og tára=foss.

**5.** Heilagann selskap høfum þar, himneskum Gudi med, forfedur, Spámenn full=

gløggt vær, fáum þar alla sjeð, æskileguslu umgengni, einnig þeim høfum hjá; sifellda elsku og samþyckí, sýna hverr ødrum má, ásamt ókéanðum øllum gløggt, ástmenn. vora vér fáum þeckt, frændur og vinir finnast þá, fagnaði meður þar, blómleg og svo með blíðu sjá, børnin sín foreldrar. fagnaðar verður fundur sá, fremur enn mann skynjar.

**6.** Þessi að øðlast gæðin góð, géf þú mér, Drottinn minn! fyrir þíns Sonar blessað blóð, bænheyrðú þrælinn þinn; þegar heiminum frá eg fer, frels mig af andar pín, skrýð mína sál' í himna her, Herra! með blóði þín, að eg útvøldum øllum með, eilífar þackir fái téð, andlit þitt blíða unn þú mér, alvaldur Guð! að sjá, einnig að búa um aldir, eilífar sjálfum hjá, svo eg án enda sýngi þér, Sanctus og Gloriá.

# Þridji Parturinn
innihelður
## ýmislega Qvedlínga
til
Gudræknis ydkunar og sidbóta.

## Fyrsti Flockur
i hverjum finnast
nockrir andríkir og gudrækilegir Qvedlíngar.

### Sumar-vísa,
qvedin árid 1657.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hverr sem kann.

Vetrar tíd, víst er umlidin nú, farsæl, blíd, blessunarfull var sú; Drottinn veitti lýdum lid, um ládid og grædi, heilsu, frelsi, fædu, frid, flest nádar gædi; menn og hjørd máttu ei neina, af lopti' og jørd, landplágu reyna; þackargjørd, því skulum greina,

ástar lystilegum hug: lofaður hafi gèfið oss Guð, gáfurnar sínar! lofaður hafi gèfið oss Guð, gáfurnar sínar!

2. Veður mjúk, von manna framar þó, engin sjúk, allsjaldan frost eða snjó, reyndi kindin raunar nein, rètt má svo inna, hverki horku mun nè mein, máttum því finna, þarfleg nægð, því var á fóðri, skjól og hægð, skèpnunni móðri, þessa vægð, þökkum vèr góðri, miskun ferskri Drottins dátt, hafi nú lof og heiður Guð, á himni og jörðu, hafi nú lof og heiður Guð, á himni og jörðu.

3. Sjónum af, afla og fiski-plóg, Herrann gaf, hverjum, svo dugði nóg, voðinn bráður vinds og unns, varð engum skjæður, stýrði ferð til sands og sunds, sá øllu ræður; um vora sveit, sóttin allfærsta, það eg veit, þjáð hefir nærsta, mjúk og heit, miskunin stærsta, Drottins, veitti oss værð og vørð; helgum, prísum, heiðrum Guð, með hjarta og sálu, helgum, prísum, heiðrum Guð, með hjarta og sálu.

4. Hverr fær tjáð, talið og reiknað greidt, svoddan náð, sem oss fèck Drottinn veitt, stundleg, andleg gæðin góð, gáfurnar flestar, af Føður blíðum þáði þjóð, þær

allra bestar; kynníng hans, klárt ordid sanna, fridinn lands, farsældir manna, andskotans, ákéfd réd banna, engin þvingan lúdi lýd; lofadur sé vor ljúfi Gud, fyrir lánid sitt góda! lofadur sé vor ljúfi Gud, fyrir lánid sitt góda!

## Mismunur Veturs og Sumars.

Lagid: O. Jesú edla blómi!

Kominn er veturinn kaldi, kastar ad margri hríd, af Drottins vísdóms valdi, veslast sú ársins tíd; sæl geymir sól ljóma, svolþrumir kul-hami, jel-rømum fjøl-sima, fyrna ørnin strid.

2. Grund. frýs, en grasid dofnar, gripina vantar skjól, bersnøggir standa stofnar, styrdnar lím, skóginn kól; smár fuglinn þreyr þøgli, þver hygli, dýr ragla, ber segl frá byr-trýglum, blandid vinda-hjól.

3. Skørp frostin skémta, eigi, sképnan hver ber sig lítt, snjór hylur vída vegi, villist því margur tídt; klædlausir fredfrusu, frid-hreisi naud kjósa; ad húsum féd flasar, fælist kulid stridt.

4. En þegar vorar aptur, uppgengur sólin skjær, øllu nýr eflist kraptur, annad

bragd loptid fær; kold hýrnar föld forna. fyllð kjarna mold styrdaud, sýld meyrna sjaldornud, svellin fjöllum nær.

5. Fuglar úr fylsnum hreifast, féd drífur húsum frá, dýrin um skóga dreifast, dag saman fjölga þá; menn hýrast, en ærin önn, heyrist, grannfærum, hlumi = jórum, hrönn báru, hrindir sundid á.

6. Doggina drífa lætur, Drottinn á kaldann snjó, verkar svo mildi = mætur, moldin þurr verdur fjó; glis skógar, gros haga, glas = fögur rós þæga, rís, þegar rás-drjúga, raka þokarr bjó.

7. Frostid þó fargi gróda, fijófgast samt uppá ný, frækornsins sjá menn sjóda, sín geyma blómstrin frí; krapt fróni ljúft lénar, lopt skinid drift hreina, gæst duna, svipt sjónum, fjötmud vatna ský.

8. Sumarsins blóminn sæli, sýnir oss Drottins mátt, vetur þó kaldur kæli, korn, jörd, gras, fræid smátt; árstídin úr sædi, er gædi hýr leidir; frjór lýdur fær Gudi, frídann heidur þrátt.

## Ungmenna Morgun = bæn.

Í Þínu nafni uppvaknadur,
Er eg, Jesú Gud og madur!

Lof sé þér fyrir líf og gæði,
Líkamans heilsu fæt og fæði,
Og allt það þín óþreytt mildi,
Aumum mér til=leggja vildi;
Bið eg þig, minn blíði Herra!
Blessun þína ei lát þverra,
Hegðun minni á hverjum degi,
Haldtu' á sönnum dygða vegi,
Lát mig njóta úngdóms ára,
Er þú barst í manndóm klára;
Géf uppfræði' æsku mína,
Andi þinn fyrir verkun sína,
Svo í ótta og elsku þinni,
Avöxt góðann færa kynni.
Hlýðni, trygð og trúna bjarta,
Tendra og nær í mínu hjarta,
Að mér svo með aldri hrønnum,
Aukist náð hjá Guði og mønnum.
Heims og Satans hrekkja snørum,
Hrind frá mér, svo ei óvørum,
Mig ógætinn í sér festi,
Eður dragi' í synd og lesti.
Vernda mig frá voða øllum,
Vondum dauða og slísa=føllum;
Englar þínir að mér gæti,
Engum svo eg meiðslum mæti.
Mitt verklag og miskun þína,
Mér lát vera unun mína;

Auk mér skilníng orða þinna,
Eru þau lampi fóta minna.
Géf mér jafnan gott að læra,
Góð'yndum við alla vera,
Varfærum í velgengninni,
Vongóðum þó raunir finni.
Ljúfi Jesú! með lífi og öndu;
Legg eg mig í þínar höndur;
Þar vil eg fús að lyktum lenda,
Lofaður sértu útan enda!

## Ungmenna Qvöld-bæn

Nú vil eg enn í nafni þínu,
Náðugi Guð! sem léttir pínu;
Mér að minni hvílu halla;
Og heiðra þig fyrir gæðsku alla,
Þáða' af þér á þessum degi,
Því er skyldt eg gleymi eigi;
En það má eg aumur játa,
Angri vafinn sýta og gráta:
Móðgað hef' eg margfaldlega
Mildi þína guðdómlega.
Utslétt mínar syndir svartar,
Sundurkramið lækna hjarta,
Afþvegið í æðsta flóði,
Endurlausnarans Jesú blóði,

Svo eg qvittur sofi í friði,
Sál og líf af Engla liði,
Umkríngd, Satans íllsku hrecki,
Ogn og slægðir finni ecki.
Blessa hús og hvílu mína,
Hjástoð lát mig merkja þína,
Þá mun aðsókn íllra anda,
Ei hið minnsta kunna' að granda.
Lát mig þeinkja á þessu qvøldi,
Það: eg lifi' í veiku holdi;
Brothætt gler og bólan þunna,
Brotna snart og hjaðna kunna.
Þú, einn Guð! skalt þar um ráða,
Pínar kný eg á dyr náðar,
Af míns hjartans innsta grunni,
Andvarpa og bið með munni:
Þegar eg skal seinast sofna,
Sál viðskilur, fjør mitt dofnar,
Hjartans Faðir! í hendur þínar,
Hverfa lát þá øndu mína;
Hold í jørðu hægt lát blunda,
Helgra þar svo bíði funda,
Og upprisinn að eg víki,
Inn með þér í himnaríki:
Þar mun eg þúsund þackir færa.
Þér sé lofgjørð, prís og æra!

## Hugbót,

þá húsin brunnu í Saurbæ 1662.

Lagið: O Faðir minn'l eg þrællinn þinn.

Guð er minn Guð, þó gerſi nauð, og gángi þanninn yfir, ſyrgja ſkal ſpart, þó miſta' eg margt, máttugur Herrann lifir; af hjarta nú, og hreinnri trú, til hans ſkal eg mér venda; nafn Drottins ſætt, fær bølið bætt, bleſſað ſé það án enda.

2. Gaf mér hans náð, gott, lucku ráð, að gledinnar efliſt kraptur, fijálſt á hann þá, og fullvel má, frá mér taka það aptur, hans hjálpin blíð, á hverri tíð, hugg=un vyrdiſt mér ſenda; nafn Drottins ſætt, fær bølið bætt, bleſſað ſé það án enda.

3. Tók ei djøfull, né tøfra=full tilvil=jun burt eign mína; ſá, ſem það gaf, ſvipti því af, ſorgin ſkal øll því dvína, mitt bætir ráð, með mildi og náð, hans miſkun þúſund=fennda; nafn Drottins ſætt, fær bølið bætt, bleſſað ſé það án enda.

4. Guð elſkar þann, ſem hirtir hann, heſi' eg þá trúna viſsa, vil eg með hind, veſæl barnkind, á vønd Føðurſins kyſsa, heilſu, lán, féð og heidur með, hans náð

vil eg afhenda; nafn Drottins sætt fær bölið bætt, blessað sé það án enda.

5. Af mér þó féð og auðlegð með, óðum svo gánga megi, grátbæni' eg nú, góði Jesú! gleymdú mér þó aldreji! lát mig hjá þér, þá héðan fer, í himna sælu lenda; nafn Drottins sætt fær bö'ið bætt, blessað sé það án enda.

## Yðrunar-vísur.

Með sínu lagi.

Guð á himnum hjálpi mér, eg huggi sálu mína, særdann huga sorgin sker, sundir hjartað pína, púngann qvíða brjóstið ber, berst við þánka sína, mæðist hold en lengi'st líf, lángvesælt er harma kíf, ei vill ángur dvína.

2. Laungum gjera mér, lángsamt géð. liðnar æfi-tíðir, he'dur seint eg hefi það sjeð, hefndum sálin qvíðir, dauðans ógn og ótti með, opt á ho'did stríðir, hugraun sú er hardla sár, himna Faðirinn dýrðar klár, bæti bölið um síðir.

3. Getinn var eg í sekt og syn', svo mig mé'dirin færði, eptir fornri Adams mind eins og Davíð ræddi; því er sálin sjúk og

blind, sorgin hjartað mæddi, holds náttúran heimsk og villt, hersilega með öllu spillt, í vondsku ágram æddi.

4. Snemma hefir bernskan bleckt. barndóms hug og sinni, áður fyrri' enn fjeck það þeckt, frá því skíra kynni, að styggja Gud en safna sekt, sálu að glata minni, var hið fyrsta verkið mitt; voldugt, Jesú! nafnið þitt, bót á bölinu vinni.

5. Lengi hefir þó leitast við, líknar Faðirinn mildi, að leiða mig frá lasta sið, svo lífið ødlast skyldi, með þolinmæði' og blíðri bið, bjarga mér hann vildi; en eg sló því öllu' í vind, ećkan holds og dárleg synd, heimsku hjartað fylldi.

6. Illa hefir mig holdið ginnt, og heimsins lystin bráða; Satan sló mér svika-mynt, sjest nú fátt til ráða, því er hjartað bleckt og blindt, það bið eg Guð að náða; þreji' eg við þann hrigðar hag, harmar, bæði nótt og dag, sálin þrautum þjáða.

7. Guð minn hefi' eg raunar reitt, til reiði' og heiptar bræði, hans milda náð og þolgéð þreitt, með þjótsku' og synda æði, grimma' yfir mig glötun leidt, gamall og úngur bæði, samvitskan því særð er mín, sæti Jesú! gæðskan þín, hana huggi' og græði.

8. Um síðir þó eg setji mér, synda girnd að deyða, holds náttúran þrjótsk og þver, þángað vill mig leiða, sem tíðast áður tamdi' hún sér, á tøpunar veginn breiða; viljinn ecki fær sig frí, fjøtrum dauðans vefst eg í, sárlega mig þó meiða.

9. Hverki ber eg til hug né dáð, hjálp mér sjálfum veita, einkis nýt eru øll mín ráð, þó ætti' eg þeirra' að neyta; Jesús minn hefir nóga náð, nú vil eg þángað leita, hann mun aumur á mér sjá, eflaust fæ eg huggun þá, sem bølinu kann að breyta.

10. Þó stærri vyrðist misgjørð mín, enn má eg sjálfur greina, mér er, Jesú! miskun þín, mildust, gæðsku hreina, hjá þér aldrei hjálpin dvín, helst mun eg þá reyna, hér við hressist hjartað mitt, heilagasta blóðið þitt, lækníng minna meina.

11. Þó gengið hafi' eg glæpa stig, gálaus mørgu sinni, elskað hold en hatað þig, af heimsku' og ofdyrfð minni, góði Jesú! minnst' á mig, í miskunsemi þinni; særð og lemstruð sálin er, syndú vægð og linkind mér, svo hjartað huggun finni.

12. Mig hefir djøfull sárum sært, og svikið af lífsins vegi, kráuka sál úr klæðum fært,

hún kann sér bjarga eigi, øllum krapti tapad og tært, sjón þad mest eg segi; ó þú sæti Samaritan! sjáðu' aumur á þeirri smán, svo eg ei útaf deyi.

**13.** Gætzi því eg þrádi þrátt, af þinni gædsku hendi, íllsku girndin eyddi brádt, aptur drafid sendi, hefi' eg lengi húngra mátt, heim nú loksins vendi, taktú vid mér útlegd úr, eins og fadirinn hjarta-trúr, í brjósti' um barn sitt kénndi.

**14.** Lækna fyri þinn dýrann deyd, Drottinn! sálu mína; fárleg synda fjøturin greid, svo finni' eg huggun þína, viltann saud á veginn leid, varginn lát ei pína, opna hug og hjartad mitt, svo heilagt nádar ljósid þitt, skjært megi þar skína.

**15.** Hjá Fødur þínum legg mér lid, Lausnarinn Jesú gódi! svo eg finni sátt og frid, sviptur þúngum módi, audmjúklega eg um þad bid, af ást og tára-flódi, segdu; eg sé ordinn einn, af øllum syndum klár og hreinn, þveginn í þínu blódi.

**16.** Framdar syndir forlát mér, Fadirinn dýrdar sæli! fyrir dýrstann Jesú dreira hér, af døprum hug' eg mæli: kastadú ei frá augum þér, ómaklegum þræli! efldu líf med

áſt og dáð, ſvo altrei mig frá þinni náð, freiſting nockur fœli.

**17.** Af fyrirheitin heiløg þín, af hjartans grunni' eg treyſti, frá djøfli, ſynd' og, ſárri pín, Son þinn kjær mig leyſti, með beiſkri qvøl og blóði ſín, barn ſitt fallið reiſti, Herra Guð! mér hjálpa þú, ſvo hald-iſt eg við rétta trú, þó frekt mín Satan freiſti.

**18.** Heilags Anda hjálpin þýð, hug og ſinni geymi, ſvo aldrei héðanaf íllſku ſtríð, yfir mig ſyndin ſveimi, þá døpur nálgaſt daudans tíð, Drottinn ſálu geymi; veiti mér þín líknin lið, leið í eilífann dýrdar frið, héðan úr þeſsum heimi.

**19.** Allar ſképnur alla tíð, af øllum hug' og rómi, ſýngi þér lof, ſem veröld er víð, voldugur Drottinn frómi! Jeſú Kriſti þóck-in þýð, þar með føgur' hljómi, heiløgum Anda' á himni' og láð, fyri huggun, ſtyrk og líknar ráð, eukiſt æra' og ſómi!

## Víſa drótt-qvæðin.

Hverr grædir hjartans qvída?
Hverr kjætti menn grætta?
Hverr ſótt hindrar hætta?

Hverr snaudann vann dauda?
Jesús huggar, hrigd lógar.
Hann græddi sorgmædda.
Hann lífi heilsu géfur.
Hann snaudann vann dauda.

---

# Annar Flockur,

innihéldur

## Heilrædi og Uppvakníngar

til

## kristilegs framferdis,

sýnir einnig hversu fallvalt og litilsverdt sé

## Heimsins ágæti og ysirlæti.

---

### Heilrædi.

Ungum er þad allra best, ad óttast Gud sinn Herra, þeim mun vitskan veitast mest, og virdíng ecki þverra.

2. Hafdú hverki hád né spott, hugsa' um rædu mína, elska Gud og gjördú gott, geym vel æru þína.

3 Foreldrum þínum þéna' af dygd, það má gæfu veita, varast þeim að veita stygð, viljir þú gott barn heita.

4. Hugsa um það helst og fremst, sem heiðurinn má næra, aldrei sá til æru kémst, sem eckért gott vill læra.

5. Lærdur er í lyndi gladur, lof ber hann hjá þjóðum, hinn er ei nema hálfur madur, sem hafnar siðum góðum.

6 Opt er sá í orðum nýtur, sem ydkar mentun kjæra; en Hussinn heimskur þegja hlýtur, sem þrjótskast vid ad læra.

7. Vertú dyggur, trúr og tryggur, tungu geymdú þína, vid engann styggur, né í orðum hriggur; athuga rædu mína.

8. Litillátur, ljúfur, kátur, leik þér ei úr máta; varastu' spjátur, hædni, hlátur, heimsk-ir menn svo láta.

9. Víst ávalt þeim vána haldt, vinna, lesa, ydja; umfram allt þú ætíd skalt, elska Gud og bidja.

## Vísur um Lúthers Frædi.

Klár Lútheri Frædin frodir,
Finna kunna menn hér sett á íslenzkt mál,
Lesid, prísid lýdir gódir,

Lærið, heyrið, gjörið rétt og sedjið sál';
Ljúfra gjafa njótið, neytið,
Niðar tíðir kannist við,
Drottins lítillátir leitið,
Lotníng veitið,
Biðjið Guð um góðann frið.

2. Bæði meður munni' og penna.
Mest á síðsta aldar kölldum tíma' og stað,
Mean vel svinnir kunna' að kénna,
Kóma heimi skylldug gjöld, ef forsmá'r það;
Orðið dýrðar dáðum prýðum,
Dyggar leggjum þackir mét,
Peim, er sóma sæðum fríðum,
Sáðu tíðum,
Sprettur gott af góðri rót.

## Kristins manns athæfi.

**Sérhvað hefir sína tíð, svo er að hlæa og gráta, hóf er best að hafa' á öllum máta.**

Finn eg það í fræði hreinu, fróðir menn sem töluðu' um, ecki skéður allt í einu, ýmsum skiptir tímunum, á stöðugu ecki stendur neinu, stundleg sorg og luckan blíð. Sérhvað hefir sína tíð. Eins fyrir mann' og menja reinu, margt kann á að

bjáta. Hóf er best ad hafa á ellum máta.

**2.** Þess áttú med greind ad gæta, gángi þér vel med settann hag, þú kannt ødru máské mæta, á morgun, heldur enn var í dag, tvennt hefir til ad gledja' og græta, guddóms maktar høndin þýð. S. h. s. t. Tjáir engum þess ad þræta, það er audráðin gáta. H. e. b. a. h. á. ø. m.

**3.** Tregast ei þá ersidt veitir, einhvern tíma sorgin dvín, svo náttúran sjálf því breytir, sólin eptir regnid skín, Gud þeim øllum huggun heitir, hér sem líða forløg stríd. S. h. s. t. Til ørvæntíngar þig ei þreytir, þó þú megir gráta. H. e. b. a. h á. ø. m.

**4.** Vertú' hógvær þá vel þér gengur, svo verøldin þig blecki sízt, á augabragdi allt forgengur, audnu' lán, þá hjólid snýst, velgengninnar støckur strengur, stundum minnst þá varir lýd. S. h. s. t. Hindra jafnan horskur drengur, holdid sig ad státa. H. e. b. a. h. á. ø. m.

**5.** Gudi' er best ad trúa, treysta og taka því vel ad høndum ber, vér skulum ecki fiekt á freista, ad fylgja því, sem holdid lér, gudhrædslunnar nærir neista, nádin

Drottins gædsku þýd. Sérhvad hefir sina tíd. Sá ofs hefir af løstum leysta, hann leidi hriggva og káta. Hóf er best ad hafa' á øllum máta.

## Várhygd.

Audtrúa þú aldrei sért,
A'drei tala um hug þinn þvert;
Pad má kalla hyggins hátt,
Ad heyra margt, en skrafa fátt,
Tak þitt æ í tíma rád,
Tókst, þó ei sé lundin brád;
Vin þinn skaltu velja þér.
Sem vitur og þar med tryggur er.

## Of og van.

Eitt er vid ofi hætt, ef augun líta gullbaug,
Ef yndin og hugarlund, þorfa uppá sitt vald.
Hittist varla hóf rétt, þá hlaupid er í gum=kaup,
Géldur þess galid hold, ad glisi verdur opt slis.
2. Hitt er van opt hætt, ad una ei vid lítinn mun,
Egna til sín ógagn, og eyr gulli vyrda meir;

Slisinn þykir lánlaus, þá lídur hann sitt
egid stríd;
Ríkum opt í raun rak, ræktarleysid fátækt.

## Gott og Illt.

Gott er ad geyma sitt, og géta prófad rétt hóf, vera ør og vel spar, og veita engum rángsleit, dælt þykir egid allt, øndvegis í sjálfs hønd, djarfur hver af skiptum skérf, skjóta finnur hugbót.

2. Illt er ad sjá sult, á sínum, þá braud dvín, letin víst ef út át, ádur géfid forrád, líka þykir ljótt ok, ad láta út fyrir dryckjustát, endilega er leid lund, þá lángar einn áhúsgáng.

3. Gott er ad greina satt, og géfa þjódum heil rád, skamta nidur skémt þad, er skédur ecki spott med, hollustu hønd full, hærstri gengur dygd nærst, unna þeim sem á mann, eina prísa eg þá grein.

4. Illt er á óheilt, ad eggja þann, eg rádlegg, lastanna er lygd verst, þó lýdir vyrdi gaman-smíd; kjæsir gledi kránkt líf, kastar heillum bak-last. Dreissid med sér dregur hlass, af dygdalausri ótrygd.

6. Gott er ad geyma sátt, í Gudi hafa fögnud, þola bædi og þreja vel, þeckja sinn eginn fleck, heilsa og hønd frjáls, heitir besta þad eg veit, lítillæti lund kát, líka er haldin dygd rík.

6. Jllt er hatur óstillt, óttaleg mun hugar sótt, þúngt eg held ad þola rángt, þjáníng gjørir forsmán; vonda kalla eg vél synd, vamm kémur spott framm, plága mun og píst nóg, ad pínast fyrir verk sín.

## Tvø Vers *).

Lagid: Ødlúngar Júda annars dags.

Gud nádi nú hvad gengur tregt, geysar ránglætid heldur frekt, á voltu hjóli heimurinn er, hnignandi fer, til falls med øllu flýtir sér.

2. Øll manna hugsan, hjarta og géd, hnígur til þess ad girnast féd, ýmisleg hegdan ørg og ljót, en ei finnst bót, hefnd mun því koma hørd á mót.

---

*) Fyrra versid finnst í einu Exemplari þad 29da, en hid sídara þad 34da i Sálminum: Géf eg mig allann á Guds míns nád: en ønnur ser Exemplør útiláta þau.

## Vísa.

Fyrnist heimur, fáheyrt skédur.
Frelsarinn Jesús geymi' og vel!
Hans híngadkoma Guds børn gledur,
Þó græti þar til sorgar-el,
En þá verda' úti øll óvedur,
Í hendur Guds eg kristna fel.

### Hexametrum.

Holdid' ofkátt veit fyrirfram, fátt hvad falla mun þægra,
Reidir sig þrátt á megn sitt og mátt eda mannordid frægra;
Ostyrilátt, þad ætlar sér hátt ad endíngu dægra;
Sá er vid gátt, þó sjáist ei brádt, sem setur þad lægra.

### Hexametrum.

Old ódum spillist, uggleysinu dárlega fyllist,
Glæpa vegur gyllist, girnd holdsins margur adhyllist.

## Um misjafnt hamíngju lán.

Lagið: Opt vindar eik þjá.

Barna lund blind fædd, við brjóstin móður kúra, æsku = stund ómædd, fyrir engu kann að stúra, en það mund algædd, er manns- ins náttúra, skammt mun til skúra.

2. Einn ef kémst hér hátt, og hyggur sér til kjæti, á þá skémst addrátt, eitthvað það menn græti, hjartað kremst, hvarf brádt, helzt er þókti mæti, allt eptirlæti.

3. Glíann reis grá hardt, gnap þá stormur hrylliti, öldu geys grimmt margt, glæstum reiða spillti, þessi eys, en snart, önnur rúmið fyllti, og bátnum bilti.

4. Skér, að ljær, skin sól, skírt að morg- un kosti, um aðra grær, eikt ból, yrju daggar rosti, síðan slær, heims hjól, hvestur gust- ar losti, með feikna frosti.

5. Því er allt í heimi', ef svo mætti greina, nærsta valt, það þeim, þykir víst, er reyna, á hlidum hallt/hálft tveim, hjólið luktu teina, fer braut ei beina.

## Veraldar fláttskapur.

Sama lag.

Svo sem gler, sýnist mér, sælan hál, ver- aldar, hvikul hér, hvað lítst þér? hvítt að

ofan faldar, undir ber, ef þú sjer, íllsku brúnir kaldar, og táli tjaldar.

2. Margann hátt, hún þrátt, hóf í yfirlæti, luckan kátt, lék dátt, litla stund með kjæti, stód vid gátt, fljód flátt, felldi þann úr sæti, frá mestu mæti.

3. Alits fríd, fræg blíd, fyrst hún mørgum reyndist, heimsknm lýd, hæg þýd, hitt þó undir meinist, slúngin stríd, slæg-smíd, sløttug rétt svo greinist, brádt burtu leynist.

4. Luckan hál, heims prjál, hold og blódid káta, flædar-bál, frekt brjál, framm úr réttum máta, þad er tál, svíkur sál, um sídir kann ad láta, sárt suma gráta.

5. Vid leigu-ból, láns-stól, líkist heimsíns sæla, ókyrrt hjól, ragl, ról, reykjar dupt og svæla, glislegt hól, gabb-tól, ginnir Mammons þræla: hverr má því hæla?

6. Daudleg mind, mannkind, moldar leirinn veikur, beina-grind, blásin vind, bóla vatns og reykur, hladin synd, lauslynd, sem logi skrá-þurr qveikur, á þrædi líf leikur.

7. Holdid bjart, ber skart, bædi gull og klædi, en þú vart, óþarft, ádur rotid sædi, verdur snart, veik art, vesælt madka fædi, sem øll endar gædi.

8. Vølsíð hér, valt er, ef viltu rétt að grunda, lífið þver, fljótt fer, frækum øll til hunda, kistu hrer, kropp ber, kaldan út með skunda, opt innan stundar.

9. Illum síð sjá við, sannra leita dáða; hégvært lið fær frið, sem flýr til Drottins náða, stunda grið, Guð bið, að geyma sálu þjáða; gjæt góðra ráða.

## Heims ósómi.

Sama lág

Hverfa happs tímar, høfuð sundlar qvilla, glossa gnaps brímar, gét eg sjónir villa, svipan straffs stímar, stjarnan spá mùn fylla, og athæfið ílla.

2. O! að tár ákøf, af augum jafnan rinni; eða nár í grøf, indi, að hvílu sinni, synda sár upphøf, sálu ógna minni, ef kannast við kynni.

3. Agirnd grá æddi, yfir fjøllin háu, ótrú flá flæddi, fróns hálfsana smáu, þrjótskan þrá þræddi, það nær blindir sáu, þar lægðir lágu.

4. Vitsku vakt sofnar, veraldar bjallan klíngir, drottna makt dofnar, dala kluckan hríngir, stóra prakt stofnar, sá stimpla málminn þýngir, því margt að þýngir.

5. Orð Herrans aktast, í allt of litlu gyldi, hverúð manns maktast, meir enn vera skyldi, synda fans fraktast, fjón og hérúð fylldi, tráts = viljinn trylldi.

6. Von er því, von er, verði Guð að hefna, hætta ný nú hér, nærri vill oss stefna; frá eg sný, fjær fer, framar meir að nefna, rök rauna efna.

## Veröldinni tildrückið.

Vond ertú, veröld! með véla = brögðin margföld, þeir fá sjaldan góð gjöld, sem géfa sig á þín höld; þú ristir einum spott= spjöld, og spéar hann uppí há volt; múta, flærð og mein köld, markað er á þinn skjöld.

2. Þeim, sem þú ert bráð blíð, býr þar undir hel = stríð, hvergi muntú heil = smíð, þó haldin værir dáfríð; vondsku þinnar ver hríð, vestnandi fer ætíð, sá þitt varast sárt níð, sælann tel eg þann lýð.

## Hversu fánýt sé fordildin.

Fölnar fold, fyrnist allt og mæðist, hold er mold, hverju sem það klæðist.

Sú er raun það sannast víða, svikul og völt er heimsins blíða, í spakmálum lærtra

lýda, lengi þar um rædist. **Hold er mold, hverju sem það klædist.**

2. Hugsa' eg opt í hyggju brunni, af hverju menn sig stæra kunni, þó er það nærsta' í náttúrunni, að nakin sérhverr fædist. H. e. m. h. s. þ. k.

3. Fordild øll hún flýr úr huga, þá feigdin mann vill yfirbuga, lítid stackar døcku duga, þá daudinn inn að lædist. H. e. m. h. s. þ. k.

4. Hvad gyldir þó rikur rambi, regist vid og standi á þambi, engin er svo dygur í drambi, að daudinn nockurn hrædist. H. e. m. h. s þ. k.

5. Þó á þér skíni' útlendsk draktin, yfirlætis og vitsku praktin; nú þú mér að minkar maktin, af modkunum þá snædist. H. e. m. h. s. þ. k.

6. Ádur enn (kannské) úti' er nóttin, af þeim tekur að draga þróttinn, kéniur þá bædi qveisa' og sóttin, qvillinn sár ei grædist. H. e. m. h. s. þ. k.

7. Þó stundum gángi þeir stockum búnir, á stígvélum séu sporar snúnir, út vid grafar backans brúnir, bein leid øllum þrædist. H. e. m. h. s. þ. k.

8. Silfur-þør og dýrir dúkar, danskur kjóll og treyur mjúkar, að sálunni lítið seinna hjúkar, þá sorgar-hitinn grædist. H. e. m. h. s. Þ. k.

9. Þó hygginn sért og hæg-lundaður, hafðu ráð mín, kristinn maður! hér er svo valtur heimsins staður, hinn fær gott er mædist. Hold er mold, hverju sem það klædist.

## Um ágirnd og aura safn.

Mig ángrar margt hvað manns athæfið, hvernig heimi' er háttað, hef' eg vel sjeð.

Öldin ódum-spillist, ósið márgur hyllist, af réttum vegi villist, von þó hjártað qvillist, heimur af hrekkjum fyllist, hægt mun ekki að dylja það. Mig ángrar margt hvað. Synd og gótzið gyllist, svo géti' menn eignast sjeð. Hversu heimi' er háttað, það hef' eg vel sjeð.

2 Upphaf allra klækja, er ágirnd fast að rækja, aura safnið sækja, sitt frá hverjum krækja, løg með límsku flækja, lagsmenn sína mest hún bað. M. á. m. h. Öfund og ofstækja, af því vaxa réð. H. h. e. h. Þ. h. e. v. s.

